# Bodsrit

til ad hlýda á

# Þá opinberu yfirheyrslu

í

# Bessastada Skóla

þann Maí

1843.

1. Islendskir málshættir safnadir, útvaldir og í stafrófsröd færdir af Skólakennara *Dr.* H. Scheving.

2. Skýrsla um Bessastada Skóla fyrir Skólaárid 1842—1843 af *Lector Theol.* J. Jónssyni R. af Dbr.



Videyar Klaustri,

Prentad á kostnad Bessastada Skóla.

1843.

Íslendskir málshættir, safnadir, útvaldir og í stafrofsröd færdir af Dr. Scheving, adj.

# Formáli.

Þessi litli vidbætir er tíndur saman

1) úr málsháttasafni, sem eg á, og kallad er Adagiologicon Islandicum í 4. blada broti; fékk eg þad, fyrir milligaungu Séra Arnórs Arnasonar á Bergstødum, til láns hjá Tengdafødur hans Séra Birni í Bólstadahlíd, og lét eg skrifa þad upp; fylgdi því eingi formáli, er frá því skýrdi, hvernig þad væri undirkomid, og vid fyrirspurn mína um þad, var þess getid til, ad þad mundi vera málsháttasafn Séra Eyólfs á Vøllum, aukid af Jóni Arnasyni, Hólastóls Oeconomusi. Er þad þá eptir þessu hid sama og nefnt er blf. 14 í formála hins prentada málsháttasafns, og ad því leiti þad hefir verid aukid af ádurnefndum manni, á þad ad vera sømu tegundar og þad, er Assessor B. Grøndal hefir átt og Herra Amtmadur B. Thorsteinson hefir undir høndum haft, og úr hverju hann hefir bætt nokkrum málsháttum í ordskvida safn Prófasts Séra Gudmundar á Stadarstad, ádur þad væri prentad (sjá ádurnefndan formála blf. 17). Af því, sem nú er sagt, má sjá, ad annad eins málsháttasafn, og mitt er, hefir verid notad, þegar hid prentada ordskvida safn

var samid. Allt fyrir þad hefi eg þó í mínu Adagiologico fundid ekki allfáa málshætti, hværra vant er í hinu prentada, nema ef þeir hafa dulist þar fyrir mér, af því þeir byrji þar ødruvísi, en í mínu.

2) Ur nokkrum málsháttum á lausum blødum, sem eg fékk ad láni hjá Séra Jóhanni Thómássyni, þegar hann var hér í skóla; hafdi þeim safnad fadir hans, Thómás Stúdent á Asgeirsá.

3) Ur tveimur málshátta søfnum frá Séra E. Thorlacius á Saurbæ; var annad þeirra ófullt, og nádi, eptir því sem mig minnir, annadhvørt fram í H, eda litid eitt lengra.

4) Ur Fornkvædis broti, sem Skólakennari Sv. Egilsen lédi mér, hafdi þad verid skrifad upp úr skinnbók þeirri, sem Snorra Edda er á, og er skinnbókar þeirrar getid í Fornm. S. 11. B. form. bls. 8. J því kvædi eru ýmsir málshættir.

5) Ur nokkrum málshátta kvædum sem eg á: a) úr kvædi Séra Bjarna Gissurarsonar med þessari fyrirsøgn, „Sannmæli nokkur fródra manna". Kvædid sjálft byrjar þannig: Módurjardar málin blíd, margir nádu fordum tíd, fródir menn ad fegra best, o. s. frv. J því eru 48 erindi. Þar fann eg nokkra málshætti, sem ádur voru óteknir. b. úr ordskvida klasa, sem Prófastur Séra Gudmundur var ádur búinn ad tína úr. Þar fann eg þó nokkra málshætti, sem ekki standa í hinu prentada ordskvida safni. c) úr mørgum gømlum dæmisøgu-kvædum med vidløgum, og er optast einhvørr málsháttur í vidløgonum. Hvørr høfundur Dæmisøgu-kvæda þessara er, veit eg ekki, því þad vantadi framan vid bókina, sem þau eru á, og fremstu blødin af því, sem til var, voru svo rotin og illa læsileg, ad eg gat med naumindum skrifad þau upp. Á sømu bók eru

nokkur fleiri kvædi, til ad mynda Barnarós, þad eru allmargir Salómons Ordskvidir, úngdóminum til gagns. Bókina fekk eg hjá Séra Páli Erlendssyni, Presti til Hofs og Miklabæar þínga.

6) Ur fornsøgum; en þar voru mér litlar leifar eptirskildar af þeim, er slíku hafa safnad á undan mér.

7) Ur hinum fornu íslendsku og norsku løgum. En ekki hefir sá, er málsháttum vill safna, þar um audugan gard ad gresja.

Nú er stuttlega á þad vikid, ad hve miklu leiti málshátta vidbætir þessi er tíndur saman úr því, sem adrir hafa ritad eptir sig látid. En þessutan er tínt, og þad ekki svo lítid

8) Ur daglegu máli, einkum úr Þíngeyarsýslu, mest úr Reykjadal og Adaldal, og þar næst úr því, sem heyrt hefi hér á Alptanesi, hvørttveggja til innan og utansveitar manna.

Ekki allfáa málshætti hefi eg tekid af þeim, sem standa í hinu prentada Ordskvida safni, annadhvørt af því eg hefi heyrt þá ødruvísi, en þar stendur, eda þeir voru svo í þeim søfnum, sem eg hafdi, eda þeir hafa bersýnilega verid aflagadir í søfnum þeim, sem hid prentada er gjørt eptir. Medan íslendskt málshátta safn er haft í stafrofsrød (og í henni þarf þad ad vera, medan verid er ad auka þad smám saman, svo fljótlega verdi fundid, hvad ádur er komid), verdur varla hjá því komist, ad hafa suma málshætti tvisvar eda þrisvar, af því þeir eru látnir byrja ýmislega í ýmsum hérødum; þegar nú einn eda annar ekki finnur einhvørn málshátt byrja, eins og hann hefir vanist, leidist hann audveldlega til ad hugsa, ad hann vanti í safnid, þó hann standi þar.

Þó þad hafi verid vilji minn, ad velja þad, sem mér fannst einna nýtilegast, í málshátta vid-

hæti þenna, úr því sem eg hafdi tínt saman, finn eg samt, ad sumt af því, sem hér stendur, er heldur til magurt og hversdagslegt, þótt þad beri á sér málsháttar svip, og ad sumt má fremur heita málsháttarlegir talshættir, gamanyrdi, heilrædi, eda annad því um líkt. En af því ekki er svo audgert, ad skilja mjøg grómt hid lakara frá enu betra, án þess nokkud af því, sem nýtanda er, sópist burt ásamt því, sem vel mátti missa sig; þá vildi eg heldur halda nokkru af því eptir, sem léttvægt er, en missa til muna af því, sem gagn er ad.

Ad endíngu vil eg geta þess, hvad nokkrar skammstafanir eiga ad merkja. P, þýdir hid prentada Ordskvida safn; F, fornkvædisbrot (sjá 4 hér ad framan); S, sannmæli fródra manna (sjá 5 a); D, dæmisøgukvædi (sjá 5 c); O, ordskvidaklasi (sjá 5 b).

# A.

A fáu kann heimskur hóf (fátt kann h. h., P).
á grannvitrum grædir mángari mest.
á hyggni er þeim þörf, sem hamíngjan er fráhverf.
á medan einn er ónefndur, er hann óskemdur.
á síyu feitist ei fódurpeníngur.
á skammri stund skipast vedur í lopti.
ad efnum (sínu) er best ad búa.
ad flestu má eitthvad finna.
ad því spyr veturinn, hvad sumarid aflar.
adgætni er eingi þrætni.
af ávextinum þekkist eikin.
af bjórum verda bikkjur ledurætnar.
af illum brunni kemur óhreint vatn.
af illum jafnan ills er von.
af mér marka eg margan.
af mögru skal mat hafa.
af seinasta bikar kemur gjarna fyrsti pústur.
af (ad?) unnu verki er hægt ad hvílast.
af vondum lögum versna sidir.
af því læra börnin málid, o. s. fr. (því læra b. m., P).
afl fylgir aldri.
aldrei (sjaldan?) bregdst fóstra barni.
aldrei dylst illskan til elli.
aldrei er bagi ad bandi.
aldrei er gaman ad illu.
aldrei er gott oflaunad, nema ílt komi á móti (nema med illu, P).

aldrei er svo gódur útigángur, [redacted] ei sé inni betra (aldrei var s. g., P).
aldrei er svo leidur ad ljúga, ad ekki verdi ljúfur til ad trúa.
aldrei er þýdur óþjóda lýdur.
aldrei kémur þadan gott út, hvar ílt er inni fyrir.
aldrei nær sá heilum eyri, er hálfan (alin) fyrirlítur.
aldrei skyldi ílt auga gott sjá.
aldrei (adrir: eingi) veit, hvar manni mætir.
aldrei veit, nær nóg er.
aldrei verdur gódur Erkibiskup af ofneytslumanni.
aldrei verdur tóa trygd (sjá: sjaldan v. t. tr.)
aldrei þrífst málugur madur.
aldrei þikir skaseinu skømm ad sér.
aldur stodar ekki fyrir heimsku (a. st. ei heimskan).
alla sér Gud um sídir.
allar erum vér Adams dætur (ekkjurnar giptast vildu).
allir (flestir, P) eru bændur til jóla.
allir eru vinir, medan vel gengur.
allir fara, þá feigdin kallar.
allir hafa eitthvørt skap.
allir kettir eru svartir í myrkrinu.
allir lágu á lidi sínu, nema eg, sagdi hann Sérhlífinn.
allir látast ókvæntir í verinu (allir eru ógiptir í v., P).
allir skutu ad Baldri.
allir spjá audnulausan.
allir svørudu eins og sá.
allt ágæti á sér óvin.
allt er audkeypt hjá lífinu.
allt er betra, en berir aunglar.
allt er betra, en brigdum ad vera.
allt er best ad líkindum láta (verdi, P).
allt er gott vid prúda (brúdi, P) ad skipta.
allt er gott þad áeykur.
allt er sofi hjá selveidi.
allt er senn í søgu.
allt er til einhvørs.

allt er vel, sem vel skipast.
allt er þad vænt, sem vel er grænt.
allt fæst fyrir peninginn.
allt heldur hundurinn herra sinn.
allt kostar nokkud.
allt skal fara saman karl og „kýll“, Sturl. 4 þ. 52. bls. (hvar þó fleiri bækur hafa „kýr“, eins og Fms. 2, 138; 10, 302); Njál. kap. 158, bls. 274, „þat mun vera makligast, at fari saman karl ok „kyll“.
allt sýnist feigum sært.
allt tekst, sem audid skal verda.
allt (allt stundlegt, P) tekur enda um sídir, S.
allt vinnur sannleikurinn; þad lýgur þú, segir peningurinn.
allt þykir elskunni dáfrídt.
alltjafnt vill kerlíng hafa eitthvad fyrir snúd sinn.
alltjafnt vita hundar, hvad þeir hafa etid.
alltíd er augnaþjón verkaþjófa verstur.
alltíd hrín eitthvad vid hvært ker.
álnir hamla audigum ad flýa, D.
alvara fylgir hværju gamni (adrir: øllu (hværju) gamni fylgir nokkur alvara).
alvara og gaman eiga betst (illa, P) saman.
annad er hausthugi, annad vorhugi (sbr. P, bls. 35).
annan (adra, P) tíd ønnur smíd.
annars barn er sem úlf ad frjá, F.
ást fædir audsveipan.
athlæid er audkendt hjá ødrum lýd.
aud er feigs vøk (audt er feigs forad, P; en, „allt er feigs forad“, Fosnismál 11.)
audkend er ólykt skolla.
audkendur er asninn á eyrunum.
audnæm er ódygd.
audur blendir ættum guma.
audur er heimamanns sess.
audur er voldugra vinur.
augad gerir margan uppvísan.

aumt (ílt) er einlífi.
aumur einatt hirdir, þad audugur einskis virdir.

## B.

Bágt er ad krydda svo kvikinda kjøtid, ad ekki sé keimur af.
bágt er ad troda tveimur stórum í einn sekk.
bágt er ad vera beggja vinur og bádum trúr (en P hefir: „bljúgur skyldi beggja vinur"; og enn aptur: þøgull skyldi b. v.)
bágt er blindum um sýn.
bágt er heimskum um hygginði.
bágt er náttúru ad breyta, D.
báng (bøl, P) er búskapur.
barn gefur barns svør.
ber ad sama brunni.
berja skal barn til batnadar (ástar, P, sbr. Hkr. Ol. helga S. kap. 120 og Finss. 4, 250).
betra er ad beygja høfudid, en reka sig upp undir.
betra er ad bída góds dags, en hreppa hann strax.
betra er ad bidja, en stela, O.
betra er ad bidja sér til gagns, en stela sér til ógagns (rángt í P, bls. 45).
betra er ad bogna vid ord, en bresta vid høgg.
betra er ad breyta vel, en heita vel.
betra er ad deya med sæmd, en lifa med ósæmd.
betra er ad einhvør njóti, en eingi.
betra er ad gángast fyrir blídu, en strídu.
betra er ad gefa óverdum, en brenna (nfl. þad).
betra er ad hafa á skafinu skamt.
betra er ad keyra, en draga (nfl. vagninn).
betra er ad leifa, en rifna.
betra er ad líða, en stríða.
betra er ad líða órétt, en gjøra.
betra er ad mæta litlu ljúfu (gódu), en miklu illu.
betra er ad sjá med sjálfs síns augum, en hafa annara søgusøgn.

betra er ad stydja, en steypa.
betra er ad taka gjørdarmann, en gjøra sig ad dómara.
betra er ad taka hjá sjálfum sér, en ødrum.
betra er ad vera fátækur, en hvørs manns óvinur.
betra er ad vera med fjøndum, en fláum vinum.
betra er ad vera ókvæntur (ógiptur, P), en illa kvæntur.
betra er ad vera øfundadur, en aumkvadur (betra er ad øfundast, en aumkvast af mørgum, P).
betra er ad vinna sér til matar, en bidja.
betra er ad þegja, en bidja adra launúngar.
betra er barmsparad, en botnskafid.
betra er berfættum, en brókarlausum ad vera.
betra er blátt, en ekki.
betra er broddsvidid, en brendt.
betra er dýrt ad kaupa, en til dauds ad svelta.
betra er gott hjarta, en hvatt sverd.
betra er hjá sjálfum sér ad taka, en bródur sinn bidja.
betra er høgg elskarans, en koss falsarans.
betra er ílt, en ekki par.
betra er kál í koti med kyrd og ró, en feitur biti af floti úr fjanda kló.
betra er lán (betri er lukka, P), en laung bein.
betra er matsveinn njóti, en eingi.
betra er nokkud, en ekki.
betra er seint í gódu, en snemma í vondu.
betra er tvísvar mælt, en einusinni villt farid.
betra er upphlaup í lófa, en snara um háls.
betra er þagad, en þarflaust sagad (þ. e. sagt; sama sem: betri er þøgn, en þarflaus ræda).
betri er ávøxtur, en ára fjøld (sbr. P).
betri er bardagi vinar, en blída óvinar.
betri er einn innan múra, en tveir utan dyra (ødrum vísi P).
betri er einn sparadur, en hundrad til óþarfa eyddir.
betri er hálfur hleifur, en ekki.
betri er heill, en hundrad marka.

betri er lítil sæmd, en mikil skømm.
betri er lítill treiníngur, en mikill forstíngur (ødruvísi P).
betri er lítils vessa von, en mikillar skriðu (ødruvísi P, bls. 52).
betri er rángeygður, en blindur.
betri er sjáandi hyggni, en hamíngja blind.
betri er sígandi arður, en snúandi (Páls bps. S., bls. 210.
betri er skaði, en illur ábati.
betri er sú eik, sem bognar, en hin, sem brestur.
betri er vodaeldur í bæ, en illur vani.
betri er þunnur bjór, en þur botn, O.
betri eru bið, en bráðleg ráð.
betst er að hætta hverjum leik, þá hæst gengur.
betst er það kjøt, sem beini er næst.
betur má guðs kraptur, en fjølmargra kjaptur.
betur mega (ráða) tveir, en einn.
betur skartar fullur kviður, en fagur kyrtill.
betur unir fugl í hreiðri sínu, en í gylltu búri.
beygðu krókinn, meðan járnið er heitt.
bíðendur eigu byr, en bráðir andróða, S. Alex. mikl 10 kap.
biðlund sigrar bræði.
bil á milli herra.
bítur á beittan aungul.
bled svo kálleagginn, að grói annað sinn.
blíð orð hepta reiði.
blind er eigin elska,
blind eru feigs manns før.
blindt er elsku augað.
blindt er í annars brjóst að geta.
boðskap get eg borið, en andsvørum ekki ráðið (Sbr. P bls. 56).
bónkjálkar brotna síst (eru ei brotnir, P).
bót liggur til alls (sjá: bætur).
bráða þørf er mest að meta.
bráðandi gáfa fær þøkk, en biðandi óþøkk.
bráðsengi vara sjaldan lengi.

brádfengur (stuttur, P) er brullaups frami, F.
brádged er bernskan (barns lund), Fms. 6, 220.
brádged verda úngmenni, Fms. 6, 195.
brádri bón hæfir óbrátt svar.
brádur andi birtir annars brjóst.
braud er barna matur.
bregdst sín manni ætlan opt (sama sem: margt fer ødruvísi en ætlad er).
bregdur — at þeim, er á lopt heldur, F.
bregdur hønd á venju, Háttal. Sn. 26 (sjá: sús er h. á. v.)
brek hafi sá, er beidist (sjá: sá hefir brek, sem b.)
brenna skal til batnadar.
brigdul er kvenna ást, S.
brigdult er lán, sem brothætt gler.
brímar fyrir Barda.
brunngaungul fata kemur opt brotin heim.
brøgd eru ad, þá barnid finnur.
bú er betra, en bán, þó lítid sé, Hávam. 36. 37. (bú er betra, þó lítid sé, P, eins og í Hávam.)
búa verdur, sem í (á) bæ er títt.
býsn skulu fátæmum mæta (sbr. P, bls. 55 og Fms. 5, 260).
býsna skal, ad betra verdi, Fms. 10, 261 (býsna skal til batnadar, Fms. 5, 199).
bædi verdur ad nýta létt og gott.
bæt svo eitt hús, ad þú spillir ei ødru.
bætur liggja til alls (sjá: bót).

## D.

Dárar eru djarfyrdtir (opt er dárinn djarfmæltur, P).
daudar eru dauds manns sakir, (ødruvísi P).
daudinn er þeim kær, sem hamíngjan er mótbær (ødruvísi P).
daudir eru dáins (dauds manns) vinir, (ødruvísi P).
dóttir fer gjarna í módurserk (sbr. P, bls. 61).
dramb vill láta drottna sér.
dregur sjór til sín.

dreymir svín um draf, og kerlingu um sinn krókstaf.
drjúgir verda mér dublararnir, sagdi okurkarlinn.
dropinn holar hardan stein.
drýgst er þad, sem Drottinn gefur.
dugandi konu kaupir eingi ofdýrt.
dugir, medan (þegar) á tánum tollir.
dyggva þjónustu launa fáir, sem verdt er (ødruvísi P).
dælla er ad draga, ef hálft hløftir, Fóstbr. s. meiri, kap. 17 (— ef ad hálfu hleypur, P).
dælt er á daudan ad ljúga.

# E.

Ef eigum járn í eldi þrenn, eitthvørt þeirra brenn (þ. e. brennur. Adrir: ef þrjú járn eru í eldi senn, eitthvert þeirra brenn).
ef ekki er visirinn, þá er ekki berid.
efnalaus orkar eingu, þó vildi.
eg á hvørki frída konu, né feitt kjøt í rót.
eg er mikilvirkur í skorponum, sagdi Hvíldrækur.
eg hefi nóg úr þeim belg bakad.
eg sagdi um sád, en þú svaradir um villibráð.
eg virdi ad vettugi, hvad hundurinn gjørir, ef hann bítur mig ei.
eigi leyna augu, ef ann kona manni, Gunnl. Ormst. kap. 11, bls. 142.
eigin elska (nfl. er) annars hatur.
eigingirni hvílir efst á bed, en ástin leggst til fóta.
eigingjarn er øllum óskildur.
eigingjarn finnur hvørgi frændur.
ein er ugla á kvisti.
ein nadra heldur annari í skefjum.
einhvørntíma kemur sá dagur, ad kýrin þarf hala síns vid.
einn biti gjørir annan lestætan (sbr. P).
einn etur þetta, annad hitt, med því móti vinnst allt upp.
einn glópur kann meira ad spyrja, en tíu vitrir fái úr leyst.
einn kvedur allra þurftar, S.

einn plægir, annar sær (þ. e. sáir), þridji veit ei hvør þad fær (sbr. P, bls. 85).
einn rángfengiun eydir tíu réttfengnum.
einnig verdur ad afla þess, sem illa skal eydast.
eins og ábótinn, dansa múnkarnir.
eins og hinn gamli krabbi skridur fyrir, skridur hinn úngi á eptir.
eins og þú heilsar ødrum, ávarpa adrir þig.
eitt barn er sem ekki neitt, tvø sem tíu.
eitt blídyrdi heptir mørg strídyrdi.
eitt er ad gjøra ord af sér, annad ad vera mestur.
eitt hár burtu gjørir annad bert.
eitthvad mistekst, þá margt er haft í takinu.
eitthvad verdur úr vøndu ad ráda.
ekkert óhóf kann lengi ad standast.
ekki á eyru ad tutla, ef selinn má skutla (ekki á skutla, ef eyrun má tutla, P).
ekki á saman á garda gamall saudur og lamb.
ekki á saudurinn samrekstur vid selinn.
ekki batnar Birni enn banakrínglu verkurinn.
ekki deyr hestur, þá hundur vill.
ekki dugir ófreistad, Njáls S. kap. 5, bls. 8.
ekki er ad eins í føgru fengur, F. (ødruvísi P).
ekki er ad fresta því, sem fram á ad gánga.
ekki er ad launa þad, sem ekki er gjørt.
ekki er allt, sem augun dæma.
ekki er ást sú audslitin, sem úngir bundu.
ekki er bani, þó bródir sé (ekki er banamanns nafn P).
ekki er daufum kvædi ad kveda.
ekki er fjandinn idjulaus.
ekki er fyrir gømlum ad glæpast.
ekki er gæfan grandalaus (grandlaus á stundum, P).
ekki er hægt ad sjá lengra, en til tannanna.
ekki er hægt gamlan ad ginna.
ekki er hægt vid svikum ad sjá.
ekki [redacted] kaupandi, nema seljandi sé.

ekki er krókur ad koma í Gardshorn.
ekki er látasemi lánggæd, D.
ekki er lengi um ad skipta.
ekki er lömbonum rád, ad reisa deilu vid úlfinn.
ekki er manninn lengi ad bera ad stúlkunni.
ekki er margt um mæta lidid.
ekki er mark ad draumum (Sturl. 6, 217).
ekki er matarfurda í fíkjunni.
ekki er mér ami ad myrkrinu, sagdi þjófurinn.
ekki er ofmikid unnid fyrir hreinkvendid.
ekki er rád ad drekkast á vid skenkjarann.
ekki er reidi réttyrdi.
ekki er sá betri, sem felur, en hinn, sem stelur.
ekki er sá gladur, sem annan þreyr.
ekki er sá heill, sem í augonum er veikur, Fostbr. S. meiri, kap. 18.
ekki er selur sjúkra fæda.
ekki er sjúkum söl ad bjóda.
ekki er sú mús betri, sem lædist, en hin, sem stekkur.
ekki er til tekid, nema þurfi.
ekki er úti öll nóttin (sagdi draugurinn, hafdi ei sofid nema hálfa), sbr. P, bls. 70.
ekki er vakurt, sagdi hann Vati.
ekki er verdt ad klóra, þar sem ekki klæar, (sjá: ekki skal klóra, o. s. fr.)
ekki er verdt ad slá hundinn med ostinum.
ekki er víst, hvar ófkytju ör geigar, Hkr. 3, 388, sbr. Fms. 7, 262: Fornald. 2, 358.
ekki er þad allt betst, sem barninu þykir.
ekki er þar hægt ad stela, sem þjófur er húsbóndi.
ekki er þorstinn vatnsvandur.
ekki er þrásættum ad trúa, D.
ekki er ætíd adfángadags kvöld.
ekki er öllum audid haldsins, sem audid er fjárins.
ekki er öllum (konum, bætir P, vinum, D inni) eins ad trúa.

ekki eru allar sóttir Gudi ad kenna.
ekki eru børn rosknir menn.
ekki eru allir helgir, sem kirkjur sækja, S.
ekki eru allir sjúkir, sem hátt stynja, S.
ekki eru fullir menn fastandi.
ekki eru óskøpin lengi til ad vilja.
ekki eru þad menn mýsnar.
ekki eru øll ord á vetur setjandi.
ekki et eg þann, sem lifandi gengur.
ekki fara þeir ætíd saman, snaudur og blaudur.
ekki fer allt eptir aldrinum.
ekki fer allt, sem ætlad er (ødruvísi P).
ekki flytur hvør dagur med sér fædu sína.
ekki fór þá svo, er vel vildi.
ekki fylgir allt fénu (adr., fjánum).
ekki gefur á allt ad kjósa.
ekki gelta svo margir hundar ad mér, ad eg láta ei alla senn í burtu barda, S. Stark. gamla.
ekki hentar sjúkum søl ad bjóda (sjá: ekki er sjúkum o. s. fr.)
ekki jafnan ást af mágum, né fylgi af frændum kemur.
ekki kemur ófeigum í hel, Fms. 8, 117.
ekki liggur í audu (annars, O) rúmi.
ekki lætur ad øldrunum.
ekki má eldsþurfi amast vid reyk.
ekki má feigum forda, Fms. 6. 417: 8, 117: Hard. Hólmv. kap. 35.
ekki má ílt varast, nema viti, Gulaþ. løg ýngri bls. 174.
ekki má ofbjóda viljugum verkamanni, (hinn lati ætlar sér af sjálfur).
ekki má ofeigum bella, Isl. S. 1, 335.
ekki má skøpum (adr., óskøpum) renna, Hard. Hólmv. kap. 35.
ekki má vid margnum, Fms. 2, 10: 11, 278.
ekki má vid óskøpum vinna, Vatnsd. bls. 74.
ekki má vita, ad hvørju barni gagn verdur, (sjá: ekki veit, ad hvørju, o. s. fr.)

ekki má þann kefja, sem guð vill hefja, Þáttr Hem. Áslákss. kap. 7.
ekki náði kötturinn músinni.
ekki sigla allir sama byr.
ekki skal bæði seint og illa.
ekki skal einn eiður alla verða (varða, P, bls. 75) Njál. kap. 13, eigi skal, o. s. fr.; eigi verður einn eiður alla, Bjarn. Hitdælak. og Fms. 4, 375. mismgr. 5, sbr. Fms. 12, 91.
ekki skal hella út skólpinu, meðan hið hreina vatn er ófengið.
ekki skal klóra nema klæi (sjá: ekki er verðt að kl.)
ekki skal kvíða ókomnum degi (ókomnu dægri, P, bls. 77).
ekki skal skáld erta.
ekki tjáir að deila við dómarann.
ekki tjáir að sofa til sæfara.
ekki tjáir að syrgja drengi dauða.
ekki tjáir (aðr., dugir) ófreistað.
ekki vantar vini, þá vel gengur.
ekki veit, að hvörju barni gagn verður, S. keisar. og Ajax. (sjá: ekki má vita, o. s. fr.
ekki veit, fyrri en reynir.
ekki veit, hvað í lánni (aðr., lónni) liggur.
ekki veit, hvar sæls manns efni situr.
ekki veit, hverir manni eru trúir, ef foreldrarnir bresta (kannske: bregðast). O. Trygg. Skálh. 2, P; bls. 85.
ekki veit ljóst, hverjum lúta skal.
ekki verða allar ferðir til fjár.
ekki verður allt í einu,
ekki verður um tóu tælt.
ekki verður við öllu séð.
ekki verður það allt að regni, sem rökkr í lopti, Isl. S. 1, 322.
ekki vægir vargurinn.
ekki þarf að kenna selnum að synda.
ekki þarf að keyra, fyrr en komið er á bak.

ekki þarf ad keyra þann sporum, sem fullu skeidi fer.
ekki þarf högum manni ráð ad kenna.
ekki þarf lengra ad jafna en til Rollants.
ellin fellir flesta list.
elskadu strákinn, en bid gud, hann eingu launi.
engan slá stórryrdin í hel.
engi deyr, þó dýrt kaupi.
engi drekkur þurran sjó.
engi er (fædist, S.) algjördur.
engi er betri af annars falli.
engi er bródir í annars neyd.
engi er einna hvatastur, Fornald. S. 1, 162, úr Fofnismál. 17; Hávam. 64.
engi er hærri, þó hann hreyki sér.
engi er í senn úngur og gamall.
engi er sá leppalúdi, ad ekki vilji fá sér brúdi.
engi er svo aumur, ad ekki geti illa gjört.
engi er svo gódur, ad galli né fylgi, Hávam. 135.
engi er svo gódur, ad gisti hann ei mæda (ad ei gángi á móti, P., bls. 90).
engi er svo heimskur, ad eigi megi af læra.
engi er svo illur, ad einugi dugi, Hávam. 135.
engi feigd um flýr, Hávam.
engi gefur af eintómis viljanum.
engi gefur af engu, O.
engi getur sónar idgjöld, nema sjálfur ali, Sonartorrek 16.
engi getur þann nid, er ödrum sé í bródur stad, nema sjálfur ali, Sonartorr. 16.
engi hefir á spurninni.
engi hefir verr en hann bakar sér.
engi hlýtur þad ödrum er hugad.
engi hnekkir á annars fæti.
engi hærra fleygir sér, en fidrid ber.
engi kann ad kjósa ord út annars hálsi.
engi kann ad ætla annan betri, en hann er sjálfur.
engi kann ödrum mat ad kjósa.

engi kaupir ellina (alleina, P, bls. 92) med aungvu.
engi kaupragur kíngir sætmeti.
engi kvedur betur, en kann (P á raungum stad. bls. 93).
engi lifir, svo øllum líki (sumir: engi gerir, svo øllum líki, og ekki gud í himnaríki).
engi lifir þad aptur á bak, sem hann hefir lifad áfram (ødruvísi P, bls. 92).
engi má allt, þad hann lystir.
engi má komast yfir (adr., fyrir) sitt skapadægur, Vatnsd.
engi mætti sá mikill þykjast, er hann þverr ei seinna, en hann vex.
engi rædur audnu sinni sjálfur.
engi rædur sættum sjálfur, Sólarljód 8.
engi sér vid øllu, F.
engi skapar sig sjálfur, Grettiss.
engi smídar med engu.
engi tekur (þ e. kemst) svo yfir vøk, ad ei vøkni (Vidurtal Gudm. biskups og Þóris erkibiskups, 14da erindi)
engi tekur þad ekki er til.
engi tyggur tannlaus.
engi veit, á hvørri stundu gæfan gefst.
engi veit ad morgni dags, hvar ad kvøldi gistir.
engi veit, hvar ødrum (adr., manni) mætir.
engi verdur sá sleginn, sem húsbóndans skipan gjørir.
engi vinnur allt í senn.
engi þykist ofvel mettur, utan fylgi tóbaksréttur.
engi øfundar þann, sem ekkert hefir.
engum dregur allítid.
eptir daglátum dreymir mann.
eptir dauda (leynda, P) líst lifir ólist.
eptir mikinn gródamann kemur gjarna mikill svallari.
eptir mørgu rennur refur, O.
eptir opna hønd fylgir tilbyrgt eyra.
eptir sem ábótinn kvedur, dansa múnkarnir (sjá: eins og ábótinn o. s. fr.).

eptir vinnunni eru launin.
eptir vondt vedur verdur gott hálfu betra.
era héra at borgnara, þó hæna beri skjøld, Fms. 7. 116.
eykst stærd (þ. e. dramb), sem álnir fjølga.

## F.

Fádu fyrst og sládu sídan (fá þú f. og slá s., P, bls. 104).
fagnar hvør, þá fengid er.
fáir eru frændur hins snauda.
fáir eru vinir hins volada (fáa á voladur vini, P).
fáir gjøra bædi fljótt og vel.
fáir hafa sín eyru á annara høfdi.
fáir kvøddu mig svo fordum.
fáir neita fyrstu bón.
fáir styrkna (verda sterkir, P) af steintaki.
fáir verda frídari, þó þeir frýni sig.
fals og fláttskapur fella sinn eiginn herra.
falskur vottur fellir sig og adra.
fanta kuífur er fyrstur í smjør (fat, P). sjá: fólans.
fánýt eru fátæks pløgg.
fánýtt er þad fegrindi, sem eingi hefir gagn af.
fár er ad búa følskum nærri, D.
fár er gamall hardur, ef hann er í bernsku blautur (s. f. blaudur), Fornald. 1, 160—1, eptir Fofnism. 6.
fár er hvatur, er hrædast (hrærast, s. f. hrørna) tekur, ef hann er í bernsku til blaudur, Fofnism. 6: Fms. 8, 409.
fár er oflofadur, fleiri um of lastadir.
fár er sem fadir, eingi sem módir.
fár er sér fullnógur.
fár er svo med baugi borinn, ad ei sé nokkud áfátt.
fár hernuminn er frekur til víds.
fár minnist etins matar eda slitinna klæda.
fara verdur, þá seigdin kallar. (sjá: fer hvør, o. s. fr.
farsælt er frómlyndid.

fáss er fródum vant, Hávam.
fátt er betur látid, en efni eru til, Bandam. S, bls. 2.
fátt [redacted] ramara, en fornesskjan.
fátt er skøpum ríkara, Vatnsd.
fátt er spárra en hugurinn.
fátt er svo vesælt, ad ekki eigi sér vesælla.
fátækir verda freststkuldum fegnir.
fátæks manns kæti hefir mørg ólæti.
fátækur má snemma fara ad hátta.
fátækur finnur sjaldan frændur skylda (sbr., fáir eru frændur hins snauda).
fellur fótlaus bykli.
fer hvør, þá feigdin kallar (sjá: fara verdur, o. s. fr.)
firra er lán fjøri.
fiskur tekur beitu en aungull fisk.
fitan vill fljóta ofan á.
fjøld er þad er tregar fýra, Hávam.
fjørdur skyldi milli frænda og vik á milli vina (vik sk. á milli vina og fjørdur m. fr., P).
flas er falli næst.
fleira er gott, en forrík drós.
fleira er matur, en feitt kjøt.
fleira er matur, en flesti framt, O.
fleira veldur mér, en vamnir einar.
fleiri eru gódir veididagar, en vedurdagar.
flest eru firn, þeim fátt hafa séd.
flest fornmæli finna sér hæli.
flest frumsmíd stendur (standa, P) til bóta (umbótar, P), Sn. Edd. bls. 236.
flest kemur upp, þá hjúin deila.
flest má svaungum bjóda.
flest telur rauparinn sér til gildis.
flest verdur fródum ad kvædi.
flest verdur nýtnum ad notum.
flest vill aums fé ama.
flestum er sín læging leid.

flestum þykir sín lækníng leid.
fljótt missist höfdíngja hylli.
flótti er falli næst, (Fms. 8, 117, í flótta er fall verst).
flýgur fiskisaga, fer hvalsaga.
flýtur upp, þó fari í kaf;
fólans knífur er fyrstur í smjør (sjá: fanta kn.)
fóli skal á forædi hleypa (P, fíflinu skal yfir (les: á) foradid vísa, en afglapa á ísa).
fólid gefur skip, en liggur sjálfur í landi.
forløgunum fresta má, en fyrir þau kemst þó eingi.
fornrar skammar skal fyrst hefna.
forsjálum dugir fyrirvarinn.
forudin sjást best vid Orkn. S. bls. 248.
fram skal gánga vantalid fé, en aptur oftalid, Oslóar R. B., kap. 1.
framsýni er flasi betri.
frelsi er feitum krásum þekkara, D.
frárád og tilrád færa mann í órád (frárád og tilrád eru ólík, P).
frestskuldum ei fagna skal (sbr., fátækir verda o. s. fr.)
frídt er ad búa á føgrum váng, en betra samt á bjargvænum stad.
fródur er hvør fregnvís.
frændskapur er hinn deigi le, F.
frændur eru frændum verstir, kvad refur, sá móraudan hund (sbr. P bls. 113).
frændur eru veslum verstir.
fúll er hvør félaus.
fús er hvør til fjárins, Mágus S. kap. 18.
fús er hønd á venju, Njál. kap. 78 í vísu Gunnars (sjá: bregdur hønd á v.)
fylki skal til frægdar hafa, F.
fyrir þýfi ad sverja er þjófa verja.
fyrnist, þá fengid er.
fyrr er kostid, en valid sé.
fyrri er grís, en gamalt svín.
fyrri er kostur, en kjør.
fyrri er nokkud, en nóg sé.

fyrri er vondur, en verstur sé.
fyrri er vænt, en valid sé.
fyrri verdur upp ad ala, en viti, hvørt gagn af verdur.
fyrst eg má, sem eg vil, þá gjøri eg, sem eg er til.
fyrst er fólid í skál.
fyrst er vísirinn, svo er berid.
fyrst eru ærslin til óranna.
fyrst skal hús hjónum fá.
fyrst var illur, sídan verri.
fæddu mig í ár, eg fædi þig ad ári.
fækkar nú um seugsama drætti.
færi allt eptir vexti, þá nædi kýrin héranum.
fæst ord hafa minnsta ábyrgd.
fæstir kunna sinn brest ad dæma.
førum oss hægt, nú er húsbóndinn hjær, sagdi Svikull.

## G.

Gagnstigar verda opt glapstigar.
gall er ekki gómsætt.
gamall køttur lepur og svo mjólk.
gamall lifir, medan Gud vill.
gaman er opt ad gikkjum hendt.
gaman þykir rúmløtum ad góna í morgunljóra.
gamlan er seint ad snotra.
gamlar syndir gráta nýum tárum.
gamlir eru ellstir.
gaungumenn opt á gøtum villast.
gefdu ekki svo gaungumanni, ad þú gángir sjálfur á tréfæti.
gefirdu stráknum eina spønn, þá tekur hann eina alin.
gefur Gud í gerdar spyrdur (gefst í g. sp.)
geispult verdur, kvad gridka.
gekk madur um gard, og gat þess ei.
geym vel, þad ei glatast skal.
gildra er refi gestahús (refi er gildra gestah., P).
ginnist fóli á glysmálum.

gjafafé er fengur rír, O.
gjalda skal hrátt fyrir illa sodid.
gjálfrar brim á báruskeri.
gjøf skal gjaldast, ef vinátta á ad haldast.
gjøld eru glæpa fylgjur.
gjørdu nedan vid, gott er upp frá.
gjørdu þig ekki gódan, þó annar finnist lakari.
gladur er sá (sem. bæt. þ inní) gróda hreppir.
gledst hvør vid velkvedin ord.
gleymdur er, sá úti gistir.
glík skulu gjøld gjøfum, Hávam. 47.
gløggt [redacted] auga á annars lýti (sumir bæta vid: ógløggt
á sín eigin).
gnóg var þar gull, er ambáttir báru.
góð er bætandi hønd, ill er spillandi túnga.
góð kvedja fær góð andsvør.
góð sumra ginna stundum.
góð væri hjúin, ef ekki væri maturinn, sagdi kerlíngin.
godin hefna ei alls þegar, Njáls. kap. 89.
gódum fylgja gædin flest.
gódur lás gjørir hjúin sátt.
gott er ad eiga margan ljúfan, ef litlu er ad skipta.
gott er ad finna glatadan hlut.
gott [redacted] ad geyma sitt.
gott er hafa bót í bíngi.
gott er ad hafa mikinn mat og marga helgidaga.
gott er ad hlýda gódu rádi.
gott er ad telja penínga úr púngi annars.
gott er allt, sem ad vilja gengur.
gott er dyggvum ad duga.
gott er efnid, ef gódar hendur umfjatla.
gott er góds ad njóta, Kjalnes. S., kap. 4.
gott er gódu ad una.
gott er gódu ad hrósa.
gott er gódum ad þjóna, S. Bær. fagra, kap. 37.
gott er Gudi ad treysta.

gott er heilum vagni heim ad aka, Egils S. Skallagr., kap. 38: Fms. 8, 186.
gott er hvad afhleypur.
gott er med vinum í velgengni ad búa.
gott er um øruggt ad búa, Elísar S., kap. 6.
gott er vammalausum ad vera, Sólarl. 30.
gott er vid gódan vin ad búa.
gott hæfir gódum.
gott kemur ekki óvart.
gott kemur frá gódum.
gott sprettur af gódri rót.
greidfær er gløtunar leidin.
greidi kemur greida á mót.
grenja mundi grís, ef gølturinn væri drepinn, S. Þórd. Hræd.
grimmur hundur fær opt gatad (rifid) skinn.
grimmur úlfur illur hirdir.
grær gángandi fótur, sveltur sitjandi kráka, (P sleppir hinu sídara).
gud á allar eigur.
gud gefur kú, en ekki nidurband.
gud láti gott á vita, nú kyssast þeir, sem ígær klipust.
gud rædur gjøfunum.
gud veit, hvørjum gudsþøkk er ad gefa (P, ekki veit, hvørjum o. s. fr.)
guds eru gjafirnar.
gæda skal þad ei er gott. O.
gætinn munnur getur sér lof.
gøfgast hver af gengi, F. (s. s., vex hver af g.)
gømul synd getur ný lýti.

# H.

Hádkjaptur hefir hvassan knif, [illegible] tóman kvid.
hafa skal barn þad er brekar, Vilkína S. kap. 39; látum barn hafa þad er brekar, sama S. kap. 68.
hafa skal rád, þó heimskur kenni (sbr. P).
hafi sá gagn, er gud vill.

hálb (þ. e. hálf) er øld hvar, Hávam. 53 (geta Rasks: hal ber øld hver)
hálfséd er, þó um sinn sjái, (ødruvísi P).
hálfsøgd er saga, ef einn segir, Grettis S. kap. 48.
hálfverki er ei hælandi (hrósandi).
hamíngjan hittir, þann hún vill.
hamra skal járn, medan heitt er.
handbær er kylfa, ef hund skal slá.
hann átti sér børn og buru, gróf sér rætur og muru.
harmur er ad mæta heimskum þegn á vegi.
hart á móti hørdu, sagdi skraumi, þá hann skeit móti skruggu (seinni hlutanum sleppir P, bls. 140.)
hart (bágt, P) er ad berja høfdinu vid steininn.
hart tumbar sá hátt sér tyllir.
hátt kall stát vill.
hefir hver til síns ágætis nokkud, Njál. kap. 78 (hafa verdur hver o. s. fr., P).
hefir sá er hættir.
heidra verdur bófann, medan herra nafn ber.
heidur breytir háttum guma.
heima er haninn ríkastur (heima er hana ríkid mest, P.)
heima er hvørjum hollast.
heima skal hvíld nema, Alvism. 1 (adrir: heima er best ad hvílast, sbr. Peder Lolle, bls. 186).
heimsk ord koma úr heimskum belg.
heimskíngjarnir heyra margt, en herma skakt.
heimskir láta á hræsni ginnast.
heimskir verda heitum fegnir.
heimskum er (hentar) þøgn best.
heimskur er hugmestur.
heimskur gefur greidan (skjóran) úrskurd.
heimskur greidir ord, en grædir høgg.
heimskur (heimskan, P) lofar sér líkt (sjá: hvad lofar).
heimskur veit ei síns maga mál, sbr. Hávam. 21.
heitum verdur heimskur feginn, S. Þorst. Stángarh. (rángt í P, bls. 143), sjá: heimskir verda.

hér (opt, P) mætist kránkt (kaldt, P) vedur og kollhetta.
hér vedur allt saman, kálfar og úlfar. Fms. 8, 243.
herrar hafa fjarlæga frændur nálæga.
hinn hrausti veit ei, hvad hinn sjúki lídur.
hinn saddi veit ei, hvad hinn svángi lídur.
hirdur er sá, er himnagud hlífir.
hirtíng er gód med hófi stýrd.
hitinn kefur kæluna.
hjásøgull er vændur lýgi, þó hann segi satt, D.
hlátur og grátur eru samskreppa (þ. e. í sømu skreppu).
hlutgjarn fer med annars søk, F.
hófleysa er falls furda (þ. e. fyrirbodi).
hól gledur (hólid á vid, P) heimskan.
holl er bætandi hønd, O.
hollari er húsbruni, en hvalreki á fyrsta ári.
hollt (dælt, P) er heima hvad.
hollur er eg húsbónda minum, þó eg sprengi mig ekki,
sagdi Verkþjófur.
hroki vex, þá hækkar í pýngju.
hryggt hjarta gjørir føla kinn.
hræddur er sá, sem ekki þorir ad skjálfa.
huggar hálfur draumur.
hugvit er hverju láni betra, D.
hund lát hunáng geyma.
húngur er sverd í hraustum kvidi, (ødruvísi, P, bls. 157).
húngur refs og hirdis svefn svíkur saud frá lifi.
hvad bídur sinnar stundar, Njál. kap. 50.
hvad er þeim ad reidast, sem eingi rækir, hvørt rass eda
høfud snýr upp á?
hvad lofar sér likt (sjá: heimskur l. s. l.)
hvad rekur annad, elska og hatur.
hvad skal snaudur fyrir gefa?
hvad skal þeim med boga, sem ekki kann upp ad toga?
hvad skal þeim spegill, sem lætur kámid sitja kyrt?
hvad skulu hrosshófar á hørpustrengjum?
hvad skulu þau augu, sem ekki sér med?

hverf er holds mæti, D.
hvør dregur dám af sínum sessunaut (legunaut).
hvør ekki vill, þegar hann má, hann skal ekki, þegar hann vill.
hvør háskann elskar, ferst í honum.
hvør hefir sinna sauda nokkud, þá hann hefir ullina.
hvør hundur er frakkastur fyrir sínum dyrum.
hvør kært vill hafa, sá skal ljúft láta.
hvør kvedur sér gaman.
hvør lítid hefir, hann þó opt gefur; hvør mikid hefir, hann opt mikils krefur.
hvør mikid hvíslar, sá mikid lýgur.
hvør nýtur fólgins fjár?
hvør rædst þar á gardinn, sem hann er lægstur.
hvør sem slær aptur, hann kemur vid knífinn.
hvør sem talar, þad hann lystir, hann fær ad heyra, þad hann ei girnist.
hvør sjálfan sig kitlar, hlær, nær hann lystir.
hvør situr sjálfum sér næst.
hvør tekur til þess, sem hann hefir nægst af.
hvør vaknar til sinna leifa.
hvør varníngur lofar sig sjálfur.
hvør veit betst, hvar ad honum kreppir skórinn.
hvør verdur ad fara, þá feigdin kallar.
hvør verdur ad fljúga, sem hann er fjadradur.
hvør verdur ad lifa, sem hann er lyndur.
hvør verdur med sjálfum sér lengst ad fara.
hvør vid drukkinn deilir, þráttar vid þann, sem ekki er heima.
hvør vottar sína veru.
hvørjum þykir sinn fugl fagur og sínir sidir sæmilegir.
hvørt land bjargast vid sín gædi.
hygginn er sá orda gætir sinna.
hýrt er þeim, sem ged hefir glatt, O.
hæfir kjapti skørdug skel (hæfir skelin kjapti).
hægra er ad byrja, en endalyktum ad ráda.
hægra er ad hefja stríd, en hrósa sigri.
hægra er ad hljóta, en lengi ad njóta.

hægra er ad sjá á ødrum, en sjálfum sér.
hægra er ad skemma, en bæta.
hægt er ad brjóta þad, sem brákad er.
hægt er ad komast í kølska gard, en óhægt út ad komast, (P, hægt er ad koma djøfli í gard, en óhægt út ad koma).
hægt ad synda, þá annar heldur høfdi upp.
hægt er ad tefla, þá verpillinn vill vel (þá vel fellur, P). Sjá: ljúft er ad tefla, o. s. fr.
hægt er ad tæla trúgjarnan (þann trúgjarna, P).
hægt er heimskan ad villa.
hæpid er ad gefa verd vid von, D.
hætta er ad leysa úr høptum þjóf (adr., bundinn þjóf).
hætta vex, þá hugur bilar.
hættúng er í hvørri giptu.
høfdíngja hylli er ei fátækra erfd.
høfgur er synda svefn.
høfrúnga kæti veit á sig vind.
høggur sá, er hlífa skyldi.

# I.

I flótta er fall verst, Fms. 8 117.
í geitarhúsi þarf ei ullar ad leita.
í illan hug kemur aldrei gott.
í mørgu fé er misjafn saudur.
í nálægd skal sér þad nægja láta, sem í fjarlægd kann ekki ad fást.
í stormi skal kæru kasta.
í þraut skal vin prófa.
í þørf skal vin reyna (ødruvísi P).
idni er audnu módir.
idni gefur braud, en ánægja gjørir þad lostætt
idnin eykur alla ment.
ill eru ill ráð, Fms. 7, 12.
illa beist høfudlaus her.
illa fer fram á óttalausu heimili.
illa gefast girndarráð, Skáldh. R. 1, 45.

illa geymist gull nudir geitar túngu.
illa grær um hrærdan stein.
illa hefir sá annan svíkur, F.
illa leggst ofdrambid.
illa leggst opt ofmetnadurinn.
illa náttúru er ílt ad laga.
illa setst opt ofsinn, Vigagl. kap. 7.
illa skartar skarn á snót,
ílls er von af illum.
ílls vegar er brautin best, O.
íllt er ad binda ást vid þann, sem ekki kann á móti.
íllt er ad deya rádalaus.
íllt er ad egna afarmenni (íllt skap, P).
íllt er ad fljúga fjadralaus.
íllt er ad gjøra fyrir annars ged.
íllt er ad glettast vid gamlan.
íllt er ad glettast vid gæfumanninn.
íllt er ad reita hár af lófa.
íllt er ad reka svørt svín í myrkri (yfir svidna heidi, sleppir P.)
íllt er ad sigra audnumanninn.
íllt er ad standa med tvær hendur tómar.
íllt er ad vera idjulaus.
íllt er ad verja sitt med þjósti, O.
íllt er álshaldid.
íllt er daufum kvædi ad kveda.
íllt er einlífi.
íllt er hyggju ord í heimskan keyra.
íllt er illan ad adhyllast.
íllt er illan kvitt byrja.
íllt er kvikum ad brenna.
íllt er litlum ad vera, Fms. 6, 202.
íllt er óhapp sitt ødrum ad kenna.
íllt er rakka ad leika vid bjarnar hvolp.
íllt er sig vid annars lán ad reyra, D.
íllt er stórum steini lángt ad kasta.

illt [redacted] um allt mikid ad mæla, S. Flovents, kap. 1.
illt er vid lidsmun' ad etja, OTr. Skálh. bls. 845.
illt er þeim ad gjøra mikid af sér, sem ekki eru baun, D.
illt er þeim ad æpa, sem eingi huggar.
illt er þeim, sem eptir maurum vaka, D.
illt er ættgjarnast (ættgengast).
illt skal illum bjóda, Ambalis S, kap. 25.
illt verdur røgu hjarta í dugmanns brjósti, S. Karlamagn.
illt øl, og illa drukkid.
illum geymir, ef aldrei nýtur.
illur er aldrei gódur, utan komi annar verri.
illur fengur illa til grunns gengur (ødruvísi P).
illur madur missir gjarna sitt eina auga, ad nábúi hans missi sín bædi.
innifastur er illur vani.

## J.

Jafnan orkar tvímælis, þótt hefnt sé, Njál, kap. 44.
jafnan vinnur fólskur madur fyrsta leik.
jafnan spyr lýdur ad lokum, F.
jafngódur er, sá undir høgg heldur, og hinn sem slær.
jafnir (kunnugir) bítast best.
jøfn eru brædra býti.
jøfnum þykir best saman ad búa.

## K.

Kapallinn geldur, þá keyrissveinn er reidur.
kastadu mér, hvørt sem þú vilt, sagdi oturinn, nema í vatnid.
kemur kjói í eggver.
kemur klækur í ljós, þó kafi hann lengi.
kemur logn á bak hreggi, S. Alex. mikla, kap. 2.
kemst, þó seinna (fyrr, P) fari, Njál. kap. 44.
kennir kussi dallinn (koppinn) sinn.
kerlíng vill hafa sinn þrætuþráð.
komist þú ei yfir, þá skríptu undir.
krákan er svørt, þó henni sé bad gjørt (ødruvísi P).

krjúp þú undir, ef kemst ei yfir (ef kant ei yfir ad støkkva, P); sjá: komist.
krummi þvær sig aldrei hvítan.
kvikur er hvør vid kunnugan.
kvøl á sá, er kvøl á (sá á kvøl, o. s. fr., P).
kvøl er ad eiga børn, en ekki braud.
kvøl er ad heyra med kerlíngar eyra.
kýrin mjólkar ekki meira, þó skjólan sé stór.
kærir hvør sinn kvída (æ kærir, o. s. fr., P).

## L.

Lambid verdur ad saud, ef aldri náir.
lán er gledirán.
landherinn verdur laungum drjúgur, Fornald. S. 3, 169.
landsvani (landsvísa) er lands heidur.
lángur vegur gjørir létta byrdi þúnga.
lát þursinum þøgn svara.
láttu þér annars víti ad varnadi verda, Njál. kap. 13.
latur armur, tómur þarmur.
latur skipar løtum, en latur nennir þó hvergi (latur beiddi latan, P).
latur uxi gjørir krókótt far (: plógfar).
latur þiggur léttferlid.
laung er bjarnar nótt, F.
laung er matmáls stund, Hkr. Hák. Góð. kap. 28: Fms., 1, 41.
laungum er vos í vetrarferd.
laus er hatturinn, þó hann hreyki (sjá: til láns er).
laust er kvenna lyndi.
leidist mangi gott, ef getur, Hávam. 132 (ødruvísi P).
leidt verdur þad, sem létt veitist.
leidur er hvør lidinn, Partalopa S. kap. 13.
leidur er sá satt eitt segir.
leidur verdur aldrei fylltur.
leika máttu, lokid er ad kasta.
leikur er gódur, ef mátur er med (ef mátinn fylgir, P).

lengi býr um barna ást (skap, P).
lengi lifir eldurinn í öskunni.
lengi má þar stíga, sem laglega er kvedid.
lengi man til sinna.
lengi man, þat er úngur getur, Gunnl Ormst: kap. 11.
lengi mega skipast heitin ord, Arons Hjörl. S. kap. 11.
lengi muna börnin, hvad vid sig er átt.
lengi segir lángt fyrir.
lengi skal vin velja, lengur vináttu halda.
lengi skapast (adr., skipast) mannshöfudid.
lengi skipast hörd (höstug, O) heit.
lengi teygist tog til garns.
létt er lauss ad fara, Sólarl. 37.
létt fellur (þ. e. dettur nidur) login (léttbær, P) sök.
lifa ord lengst eptir hvörn, Fms. 8, 116.
lifa ord lengst eptir lidinn mann.
líka bítur sú tíkin, sem undir liggur.
líka er feit hin litla steik.
líka þarf ad skilja hálfkvedna vísu.
linur læknir gjörir fúin sár.
lítid er af lauki gæft.
lítid er nef vort, en breidar fjadrar, S. Rafns Sveinbj.
lítid er um nytina, ef kjarninn er burtu.
lítid fyllir nálar auga.
lítid fær sá litlu sær (þ. e. sáir).
lítid hár hefir og sinn skugga.
lítid skal í eidi ósært, Grett. S. kap. 97.
lítid vatn laugar hreinan.
lítid vid lítid, verdur lítid mikid.
lítil er vitska heimskingjans.
lítilátur múnkur verdur opt dramblátur ábóti.
lítill er vesæls manns fiskur.
lítill hestur er í vatni mestur (nsl., þad mesta af honum er nidri í vatninu).
lítilsverdur er ösundlaus madur.
litlu kefli klekkja menn stóran hund ad hræda.

litlu munadi, sagdi músin, hún meig í sjóinn.
litlu nýt er naudlofun. D.
litlu þarf med lagi saman ad halda.
ljá skal óhljóds eyru, ef illa er talad.
ljós er nóg, þá sólin skín.
ljúfra er ad þiggja, en láta úti.
ljúft er ad tefla, þá teníngurinn vill vel (sjá: hægt er ad tefla).
lofadu svo nálægan, ad þú nídir ekki fjarlægan. (lofa svo einn, ad lastir eigi annan, Fms. 11, 215, í vísu Steins Herdísarsonar).
lofadu þad, sem lofsverdt er.
lofar hvør sér líkan.
login søk er léttbær.
lukkan og snarkríuglan, hvad veitstu líkara?
lygnt vatn á lángt til botns.
lýtin skamma skarar, F. (s. s., skømm er skarar lýti).
lýttur er sá, sem ekki fylgir landssidnum (Sá er lýttur, o. s. fr., P).
lægir undir lund, nú lídur á.

# M.

Madur er moldu samr, Sólarl. 47.
madur er sá manns verk vinnur.
madur hefnir manns, en Gud allra.
magur matur er betri, en tómt fat.
mannord fylgir manni til dyra.
mannordid lifir, þó madurinn deyi.
margan drepur dárlegt þor, D.
margan stelur vínid viti, Brynhild. kv. 29.
margan tælir føgur ásýnd, O.
margir eru linir lángir, en stuttir stinnir.
margir eru málvinir, fáir fulltrúar (ødruv. P, bls. 214).
margir eru menta vegir.
margir eru vinir, medan vel gengur (margur er vinur, P).
margir smálækir gjøra mikla á.

marglátt er mýid, þegar þad geispar.
margt á ekki saman, nema nafnid.
margt dvelur þann, er um morgna sefur.
margt er barna elid (jelid; adr., bølid).
margt er gott í koti karls.
margt er ljótt (líkt, P) med þeim, sem gódir þykjast.
margt er smátt, sem vidber á sídkveldum, Grett. S. kap. 17 (margt ber smátt vid á kvøldin, P).
margt fellur milli munns og sopa.
margt gengur verr en varir.
margt kemur til málugs manns, og aldrei þegir kjaptur hans (ødruvísi P).
margt má hellan hindra.
margt má manninn minna.
margt skipast á manns æfinni, Fms. 7, 156.
margt verdur á manns æfinni, Fms. S. bls. 195.
margt verdur á mørgum døgum.
margt þykir svaungum sætt, er søddum þykir óætt.
margur á sér vini med óvinum (hverr á vin med óvinum, Hkr. Ol. helg. kap. 73 end., Fms. 4, 149).
margur á því fátt, hann nýtir ei smátt.
margur býr til líma (þ. e. vønd) á sjálfs síns bak.
margur dansar, þó hann dansi naudugur (margur dansar naudugur, P).
margur er manndómsmikill í ordi, en lítill á bordi (þ. e. þegar á reynir). Ødruvísi P, bls. 216.
margur er óvíss vodinn.
margur er í æsku líkur ljóni, en lambi í elli.
margur er sá konurnar skreytir.
margur er sínum ólíkur þó skyldur sé.
margur er smjørs vodinn.
margur er varningur í sølumanns sekk.
margur gledst vid vel kvedin ord.
margur kemst í hættu fyrir heimsku sína.
margur kvídir þeim degi, sem aldrei kemur yfir hann.
margur láir þad ødrum, sem hann leikur sér ad sjálfur.

margur leyníst lengi.
margur lýtur þeirri hendi, er hann vildi gjarna ad af væri,
Fmf. 8, 243.
margur neytir meir audnu, en laga.
margur sér þad á ødrum sem hann sér ekki á sjálfum sér.
margur sleppir af steikinni, og sleikir um fíngurna.
margur tók vid gáfunni, en tapadi frelsinu.
margur verdur feitur af annars fé.
margur vill vera gildur, þó hann geti ekki.
margur þekkir mann af sér.
margur ætlar hallast muni, en ekki steypast.
matur gefur mælsku, en møttull dirfsku.
medan tveir della um vasagripinn, kemur hinn þridji og
tekur sitt.
meira er tvennt, en annad eitt.
meira vardar, hvørs einn nýtur, en hvad hann hlýtur.
meira vardar valdsmann um vit, en føgur klædi, D.]
menn reka helst þann sleiginn, sem best gengur.
menn sitja þar helst, sem eldurinn logar best.
mér er ekki gagn ad því auganu, sem eg sé ekki med.
mey skal ad morgni lofa.
meykerlíngum margt ad amar.
mikid má, ef vel vill.
mikid meyu bidin mørgu sinni, S. Alex. mikla, kap. 16.
mikid prýdir hagvirk hønd.
mikid vatn rennur, medan kvernkallin sefur.
mikil verda herdaverkin, en misjøfn morginverkin (Lard. msc.
c. 63, mikil verda hemdarverk, en misjøfn morgon-
verk).
mildari er margur í ordum, en útlátum.
milli tveggja stóla fellur rass á gólf.
misfengid malar ágirndar kvørn.
misjafnar verda fórnir til manna, Svarfd. S.
misjafnt vinsæl eru munngátin.
misjøfn æfi er best.
mistrúad er marglátum manni, D.

mjøg er sá hræddur, sem ekki þorir að skjálfa (sjá: hræddur).
móðir er sú mat gefur.
morgunroðinn vætir.
muna þeir mein, er þiggja, Ísl. S. 2, bls. 86.
mús er heimarík í fátækrar konu búri.
músin braut boð kattarins.
múta brýtur stein (mútan bleytir steininn, P).
myrkrin eru þjófum þekkust.
mørg eru konúngs eyru.
mørg eru konúngs ráð.
mørgu lýgr sá margt talar.
mørgu svarar frestinu, Fornald. S. 3, 214.
mørgum bregðst mága stoðin.
mørgum er mein að heimskunni.
mørgum flotar ein ár til lands.
mørgum rædur litlu, hve verðr leiddur heiman, Atlamál, 33.
mørgum þykir fagurt féð, F.

## N.

Nálægur veggur hitnar, þá [redacted] hinn næsti brennur, Árna Bys. S. bls. 75.
náttvíg eru morðvíg. Egils S. Skallagr. kap. 62.
nauðsýn er nauðstøddum að biðja.
nei og já gjørir lánga þrætu.
nóg hefir sá sér nægja lætur.
nótt skal nema nýræða til, Hrafnag. Oð, 22.
nú er gott með þeim í gær bitust.
nýtr manugi náss, Hávam. 71.

## O.

Obeðin þjónusta er eingum ofgóð.
oddar gjøra jarli megin, F.
óðul er æskan.

of fær gjarna illan enda.
ofdrykkja eydir viti, en ofát heilsu.
ofhátt spil órétt (adr., ójafnt) gengur til.
ofkaupa má gullid.
ókunnug er myrk gata, S. Jóns Bps.
ókunnigur (ókendur) varníngur firrir margan fé.
ókunnigur (ókendur) varníngur verdur drusðum dýr.
ólögum sætir sá ólögum beitir.
ónýt er liggjandi list.
opt er brigd undir brúdar líni.
opt er erfidlátur idjusmár.
opt er fals undir fögrum ordum.
opt er fegurst skinn á fúlustu snákum.
opt er galli á gersi.
opt er geitarhugur í þeim, er gildir þykjast, D.
opt er góds getid.
opt er grey í góds manns ætt.
opt er hinn ellri rádgari.
opt er hulinn heyrandi nær.
opt er hvinn undir hvítu líni (ödruvísi P bls. 253).
opt er lágur sess hægur.
opt er lid ad lítils háttar manni.
opt er náttgjóla nöpur.
opt er ódrengur undir dýrum möttli.
opt er spakur madur nærgætinn.
opt er sultur í selbúi.
opt er vo fyrir dyrum.
opt er þad gott, sem gamlir kveda.
opt er þad í koti karls, sem konúngs er ekki í ranni, Máus S. kap. 27.
opt er þörf, en nú er naudsýn.
opt eru falskir menn mjúkmálir.
opt eru köld kvenna rád, G. Súrs. S. kap. 19.
opt eru pöddur í pytt (lygnu vatni).
opt eru skædir fiskar (adr., ormar) í lygnum vötnum.
opt eru smá (litil P.) erindi á vorin.

opt eru vaskár hendur undir vondri kápu.
opt eru þrifnar hendur undir rifnum stakki.
opt fellur sá, er fángid býdur.
opt fer gódur matur í hunds kjapt.
opt fer sá villt, sem geta skal, Fóstbr. S. meiri, kap. 40.
opt fladrar kjaptalof ad sýngjørnum, en geltir ad gódum.
opt fylgir sultur sjálfrædi.
opt gjalda sætur óminnis.
opt gledur sá adra, sem gladur er.
opt gleymir hún kussa því, ad hún var kálfur.
opt hefir líkt upphaf ólíkan enda.
opt hefir vinnulatur viljuga túngu.
opt hefnir sá halloki verdur, Hugsvinnsmál.
opt hendir þann grand, sem gódur þykist, O.
opt hid sama svín í akri. Fms. 8, 233.
opt hinn betri bilar, þá er hinn verri vegur, Hugsv. mál.
opt hlýtst íllt af illum, Dropl. S. meiri, kap. 15.
opt hlýtst íllt af marglæti.
opt hlýtur mikid lof litla sæmd.
opt kann gódur gód rád.
opt kemur sterkastur stormur úr blídasta logni.
opt kemur vetur med kalda hønd.
opt kennir sá ødrum, er glatar sjálfur gæfu sinni.
opt matar ósýnn nef.
opt rís deila í ølkonu húsi.
opt sést ryk á sannleik, ef sópara vantar.
opt smídast líknesski af ljótu efni.
opt stendur íllt af kvenna hjali, G. Súrs. S. kap. 9.
opt úr skorpnum belg skilin ord koma. (Hávam. 136, Skørpum fyrir skorpnum).
opt veldur penníngur pundi.
opt verdur beita andrjú (kannske: anndrjúg) þá farid er ad tolla hana.
opt verdur brádkvødd vináttan, þá verpillinn tæmist (ødruvísi P).
opt verdur galin soli gódur hestur.

opt verdur grátt úr gamni.
opt verdur hljótt eptir gamanid.
opt verdur kaldt í hreti, F.
opt verdur kerlíngar hlátur ad kleppróttum hósta.
opt verdur kvalrædi af konum, Sólarl. 10.
opt verdur lítid af því høggi, sem hátt er reidt (annars: sjaldan verdur mikid af því h., o. s. fr).
opt verdúr ofsad til vansa, S. Alex. mikla, kap. 19.
opt verdur sá gamall, er med ordum er veginn.
opt verdur sá tældur, er trúgjarn er.
opt verdur slíkt á sæ, kvad selur, var skotinn í auga, Fms. 8, 402.
opt verdur sú virdíng lítil, sem snemma leggst á, Hrafnk. S. Freysgoda.
opt verdur sveipur í svefni, Sturl. 6, 210, (svipur, Sjónarljód Leirulækjarfúsa 6.)
opt vex leikur af litlu.
opt vitu ógjørla, þeir er sitja inni fur, hvers þeir ro kyns, er koma, Hávam. 134.
opt volkar vondur madur væna konu.
ósáid vor uppskurdarlaust sumar.
ótrúr er óttalaus þræll.
óþrifnadur er aura tjón.

## P.

Peníngurinn er bædi komandi og farandi.
peníngurinn er veidinn (adr., fengisæll) á hverri kaupstefnu.
prjályrdin pretta, D.
prúdur er sá sig prófar rétt.
prýdir bætandi hønd (sjá: mikid prýdir o. s. fr.)

## R.

Rád er ei betra, en órád, nema í tíma sé tekid (annars: ekki er rád, nema í t. s. t.
rád eru til alls fyrst.
rádþurfum verdur helst rádaskortur.

rauparinn snídur sér lof úr løstum, D.
reidi er versti rádgjafi.
ríkur hlýtur ad ráda, þó hafi hyggju snáda.
ró skal reidi gefa.
rógsmunnur er ránglætis brunnur.
rúmlegull aflar lítils forda.
rækslan ríkar kvennsóma, D.

# S.

Sá á fyrr ad høggva, sem skorad er á.
sá á kvøl, sem vøl á.
sá allt sitt vill hafa, fær ekkert af annara.
sá árla rís, verdur margs vís.
sá askur er vel mældur, sem skuldanauturinn setur sig ofan á.
sá bítur, sem svángur er, O.
sá brennur fyrst, sem eldinum er næst.
sá brýtur skip, sem skip á.
sá eld vill fá, hann verdur ad leita í øskunni.
sá ekki vill gánga upp stiganu, kemst ekki upp á loptid.
sá er ekki alla æfi vesæll, sem einn dag á gódan.
sá er ekki heimskur, sem kann ad skammast sín.
sá er ekki idjulaus, sem þegir yfir því, sem leynt á vera.
sá er eldurinn heitastur, sem á sjálfum brennur.
sá er eingi heill, sem í gedinu er veill.
sá er eingi ósjúkur, sem hugurinn veikir.
sá er eingi svinnur, er sefur ofan í vinnu.
sá er snart fenginn, sem ljúfur fer med.
sá er sæll, sem gódum herra þjónar.
sá fellur opt fyrr, sem frægri er, S. Ans. Bogsv.
sá flytur gott hlass í gard, sem góda konu fær.
sá fremstur vill verda, verdur opt hinn sídasti.
sá frid vill hafa, má ei frid brjóta.
sá fær gæfu, sem gud vill
sá fær happ, sem hamíngjan ann.
sá fær opt fall, sem ødrum ætlar fall.
sá fær, sem frjár.

sá gefur mest, sem minnst má.

sá getur hlegid, þegar hann vill, sem kitlar sig sjálfur.

sá geymir músum, er til morgins geymir.

sá gjarna vill hræra í annars potti, út úr hans potti sýdur eda brennur vid.

sá hefir brek, sem beidist (sjá: brek hafi).

sá hefir ekki allt, sem opt hellir.

sá hefir, er Gud gefur.

sá hefir, er hættir, Fms. 8. 186.

sá hefir litid vit, sem gengst fyrir lit.

sá hefir sinn vilja, sem hægt fer af stad.

sá hlýtur ad bera, er veit Þ. Hemings Asl. kap. 6.

sá hrapar opt lágt, sem hreykist hátt, sbr. Søgu Hektors sterka, kap. 7.

sá hreppir opt meira mein, sem ekki vill þola hid minna, D.

sá kann ekki ad bæta brók annars, sem berlæradur er sjálfur.

sá kann ekki ødrum ad stjórna, sem ekki kann sjálfum sér.

sá kaupir ekki strákinu, sem þekkir hann.

sá kennir ødrum ad aka, sem ekur fyrir.

sá kært vill hafa, skal ljúft láta.

sá latur er ad idja, er ólatur ad bidja.

sá má hátt kalla, sem djøfulinn vill hræda.

sá má lengi gráta, sem eingi huggar.

sá má svara djarflega, sem dánumannlega breytir, (ødruvísi Þ).

sá má taka vid, sem digra hefir skøkuna.

sá man, sem haukinn gaf.

sá margt girnist, gengur margs á mis.

sá missir ekki, sem fyrstur fær.

sá sem byrjar ferd sína á hlaupum, endar hana gjarnast løtrandi.

sá sem ekki lýtur ad litlu, verdur sjaldan ríkur.

sá sem ekki vill, þegar hann má, hann skal ekki, þegar hann vill (sjá: hvør ekki vill).

sá sem etur allt upp á einu máli, má sitja yfir tómum diski á því næsta.

sá sem hefir knøtt og knattdrep, fær einhvørn félaga.

sá sem hefir reykinn, fær opt lítid af réttonum.
sá sem illa dettur, stendur verkjandi upp.
sá situr, sem sitja má, sá skipar, sem skipa má.
sá situr sig ekki úr færi, sem fyrstur rær.
sá skal ei frid brjóta, sem fridar vill njóta (sjá: sá frid vill hafa).
sá skal ei vera vandur ad svari, sem vondar kvedjur sendir.
sá skal grand varast, sem gódur þykist.
sá skal reka réttar síns, sem runnid getur.
sá snemma vill vera herra, skal lengi vera þjón.
sá steinn verdur um sídir votur, sem allir hrækja á.
sá verdur ad bidja, er bjódendur ei fær, Máus S. k. 25.
sá verdur ad fara, sem feigur er.
sá verdur ad lúta, sem lágar hefir dyr.
sá verdur ad lúta, sem lægra hefir vald (adr., tjaldid).
sá verdur ad mæta misjøfnu, sem vída fer, Fornald. 2, 74.
sá verdur (þarf) ad hafa breidan lófa, sem allra (hvørs manns) munn vill byrgja.
sá verdur ad tefla á tvær hættur, sem vinna vill.
sá verdur ad vaka, sem ødrum á ad halda vakandi.
sá verdur aldrei audmadur, sem fæddur er til fátæktar.
sá verdur eik ad fága, sem undir (henni) skal búa.
sá verdur sjaldan ríkur, sem ekki lýtur ad litlu, (sjá: sá sem ekki lýtur, o. s. fr.) ødruvísi P.
sá verdur sjaldan ríkur, sem opt rífur sig upp.
sá verdur sig sjálfur ad lofa, sem leidan hefir granna (sá skal sig lofa, P).
sá verdur tvisvar feginn, er á steini situr.
sá verdur út undan, sem fjærstur situr fati.
sá þarf ad hafa breidan lofa, o. s. fr., sjá: sá verdur.
sá þarf ekki ad bíta bein, sem ad heimbodi situr (sem í hófid er settur).
sadning spyr ei ad því, er svengd má þola.
safnast þegar saman kemur.
sama (samt) er svín med silfur á grønum.
samlyndi safnar aud, en sundurlyndi sóar fé og nádum, D.

sanuindunum reidist hvør mest.
sannleikurinn [redacted] sagna bestur.
sárast er þad á sjálfum liggur (þàd er sárast, P).
sátt er best þeim saman eiga ad búa, D.
sátt er syskina reidi.
segja skal þurs, ef hann situr nøkkvidur vid eld, Isl. S. 1, 347.
segjanda er allt sínum vin, Egils S. Skallagr. kap. 56.
seigt er ad róa køttinn af gærunni.
seigt er þræl ad snotra, D.
sein (adr., svinn) burtreid tekst laungum vel.
seinasti bikar fær fyrstan kinnhest (sjá: af seinasta bikar, o. s. fr.)
seint er ad byrgja bruuninn auda, þá barnid er dottid ofan í (adr., daudt).
seint er ad sækja vitid í vasann.
seint er kvenna ged kanna, Vigl. væna, kap. 14.
seint (sjaldan, P) grær um hrærdan stein.
seint lídur sólarlaus dagur.
seint er eptir ad líta, þá kýrin er dottin ofan í.
seint fyllir søgvís kona snældu.
seint þrýtur þann, er verr hefir, Fms. 8, 412 og F.
seinþreyttur er gæfumadurinn.
sem einn er klæddur, er hann kvaddur.
sér á kinn sadníngin.
sér, hvar í gardi grís er alinn.
sérhvør fylgir sinum drætti, D.
sérhvør hefir sína gæfu, D.
sérhvør hefir sína kreddu.
sérhvør hefir sína lund, sagdi karlinn, hann reid torfstakki.
sídar verdur sá ad leita, er lítid sax hefir í hendi, Broddh. S. kap. 3.
sinn brest láir hvør mest.
sinna verka nýtur hvør.
sínum er fjandinn verstur.
sínum forløgum verdur hvør ad fylgja.

sínum gjøfum er hvør líkastur.
sínum høndum á hvør hróđurs ađ leita.
sitt ráđ tekur hvør, er í svørfin fer (aðr., er í kreppíngar kemur).
sitt vill hvør fyllst.
sitt vill meiniđ sérhvørn þjá, sumir fleiri fá.
sjaldan batar nokkur sig á brjáli, D.
sjaldan brotnar gler fyrir gæfumanni (aðrir: sjaldan brýtur gæfumaður gler).
sjaldan dregur minna tré af meira.
sjaldan er einskis vant.
sjaldan er gjøf vonds manns gallalaus (aðr., grandalaus).
sjaldan er góđu oflaunađ, nema íllt komi á móti.
sjaldan er gott uppeldi oflaunađ, nema illu sé.
sjaldan er illska innifǿst.
sjaldan er svo sætt, ađ ei sé međ ólyfjan blandiđ.
sjaldan er upphaf endingu líkt.
sjaldan er þađ gott skáld, sem gamalt yrkir (aðr., kveđur). Þađ er sjaldan gott skáld, sem, P.
sjaldan eru námsgáfur gallalausar.
sjaldan fellur eik viđ fyrsta høgg (eigi fellur tré viđ iđ fyrsta høgg, Njál. kap. 139, bls. 224).
sjaldan hefir góđur kvistur sprottiđ af illum runni.
sjaldan hreykir hygginn hátt.
sjaldan kemur liggjanda úlfi lamb í munn.
sjaldan kemur liggjanda vargi matur í munn.
sjaldan koma ótøluđ orđ á þíng.
sjaldan launa kálfar ofeldi.
sjaldan rekur einn úlfur vel annars erindi.
sjaldan vegnar vølu (þ. e. spákonu) vel.
sjaldan vegur sofandi mađur, sigur, Broddh. S. kap. 6.
sjaldan verđa flóttamenn góđir apturhvarfs, Fms. 8, 226.
sjaldan verđur réttsýn reiđi.
sjaldan verđur svo leiđur til ađ ljúga, ađ ljúfur finnist ekki til ađ trúa.
sjaldan verđur tóa trygđ (aðr., trygg). Sjá: aldrei v. t. t.

sjaldan verdur víti vørum.
sjaldan verdur þræll happasæll.
sjálfir rífast úlfar, ef eiga ser ei kálfa.
sjálfrádur þræll setur húsbóndann sér skør lægra.
skamma stund skipast vedur í lopti.
skamtadu stráknum spønn, hann skamtar sér adra sjálfur.
skemur er verid ad þvo, en þurka.
skilur á milli feigs og ófeigs.
skjótt er gagn gjørt, skerdu af flykkinu.
skortur eltir skammsýni, D.
skortur er leti laun.
ský á aungvan skildaga.
skýtst, þó skírir séu (adr., þykist).
skærin gjøra barnid blindt, en knífurinn eineygt,
skøkk ord koma úr skældum haus.
skømm er ró reldi.
skømm er skadsamlegt gaman, jafnan [redacted] þad góds glatan.
skømm er skarar lýti.
skømm hundum, skitu refar í brunn karls (skamm, P).
skømm og skadi skiljast sjaldan ad
smá eru erindi á vorin (adr., vordaginn).
smá verda jafnan ørvendra manna høgg, Fóstbr. S. meiri, kap. 35.
smátt er undir einum (þ. e. lítid munar um einn) Fms. 3, 9 í vísu Hallfredar Vandrædaskálds.
snaudur herra er í heidri smár.
sofandi gefur Gud sínum.
sorg gjørir søla kinn og sár augu.
sorgfullur hugur gjørir sár augu og svídandi brá.
sorgin eltir sæluna.
sótt kemur snarfara, en fer seinfara.
spakt skyldi gódum hesti rída úr hladi.
spott og skadi sitja saman.
spyrr ætt (þ. e. spyrja menn) ad jøfrum, Háttal. Sn. 26.
stendur fóli, uns fætur verkjar.

stird eru stødu: beinin.
stór rass (gumpur, P) þarf vída brók.
stormur birtir stýrimennsku.
stórt hæfir stórum.
stórt skal stórum bjóda.
stórþjófarnir stíga um hlid, [redacted] smáþjófarnir hánga.
stundum fellur og stundum flædir (þ. e. fellur ad og út)
stundum þýtur í logni lá, F.
stærdu þig ekki stórum af strigaþurkunni.
sú kvørn vinnur og verk sitt, sem undir liggur.
sultur gjørir sætan mat.
sú mús, er safnar á haustum, feitir ekki hrafna á vetrum.
svángur madur sárra bindst ei orda, þá seint er farid ad borda.
svei þér, slærd, þú ert ekki á bók lærd.
svín fór yfir Rín og kom aptur svín.
svipar hvørjum til sinna.
svipull er svefn á sjó.
svipult er sæfar logn.
svo brennir netla vin, sem óvin.
svo dugir ljúfur, sem launad er.
svo er barn á afbæ, sem vanid er í óbæ.
svo er hvørt mál, sem þad er virdt, O.
svo er margt þvegid, ad þad er ekki hreingjørt.
svo eru løg, sem hafa tog.
svo eru rád, sem gefast.
svo fellur hestur á fjórum, sem madur á tveim.
svo fer hvør, sem fær er.
svo lengi má kvola í hreinum brunni, ad menn ausi óhreint.
svo lifir hvør, sem lyndur er.
svo lifir hæna á skøfum sínum, sem ljón á bráð sinni.
svo má einn eyda, ad sjø megi vid lifa.
svo má lengi vondu venjast, ad vondt þyki gott.
svo sýngur hvør fugl, sem hann er nefjadur til.
svo verdur hvør ad fljúga, sem hann er fjadradur.

svørt kýr selur hvíta mjólk.
synd er verst med synd annari ad verja, D.
sækist flest um síðir.
sæll er hvør sig gódan geymir.
sæll er sá gódu náir.
sæll er sá hollt hús hittir.
sæll er sá sér safnar gódu.
sæll er sjódáudur, en vesæll vatnsdaudur (adr., daudi).
sælla er ad veita, en þola, O.
sælli er gjøf, en þága.
sælt líf og sóttlausir dagar fylgjast ei alltíd ad.
sætt er sjaldætid (sætur er sjaldfenginn matur, P).
søk bítur sekan.

## T.

Taka skal gæs, medan gefst.
taumlaus munnur mælir sér ógagn.
tekst þar ei í torfureit á (þad má ekki taka á því, t. d. silkiklút, í flagi).
tekur úlfur af töldum saudum.
til er matur, þá þessi kemur í bú.
til góds vinar liggja gagnvegir, Hávam.
til hvørs er ad smjørga þad fleskid, sem nógu er feitt?
til hvørs er gømlum ad gefa, hann getur ei borgad út í hnefa?
til láns er hatturinn, þó hann hreyki.
til márgs verdur hætt jafnan, Kjalnes. S. kap. 4.
til ordinna hluta skal gott mæla.
til segir hugurinn vilja, Vigl. Værna í vísu kap. 14.
til smjørs er ad vinna, en ei til sølva (adr., flauta).
til þess ad gjøra eina lýgi trúanlega, þurfa sjø adrar.
til þess dylst einn dagur, ad allt skuli hrædast.
til þess er biskup ad bera hann fyrir.
til þess er fé ad flíka því.
til þess er gagi (þ. e. hundur) ad gelta (gagarr er skaptur, því at geya skal, F).

til þess er glópur ad ginna (adrir: til þess er glóp ad ginna, ad gjaldi heimsku sinnar).
til þess er hundurinn, ad hann gelti.
til þess er þjótur ad þurka á.
til þess eru bleydimenn ad blegda.
til þess eru løg, ad bodord séu haldin.
til þess eru vond dæmi ad varast.
til þess segir túngan, af hvørju landi madur er.
til þess tekur hvør, sem hann á ad sér.
tíma þarf til alls.
tímans brigdlyndi vottar vinarins trúlyndi.
tíminn tælir þjófinn.
tína má gull úr grjóti.
tjónid bætir ei um fyrir skadanum.
tómt búr gjørir rádskonu galda.
tómt er kerid, þó krossad sé yfir.
tómur er tignar rómur.
torveldt er náttúru ad temja.
traud gengur geit úr gardi.
trúdu ekki skugga þínum, þó hann gjøri þig stóran.
túnga er vara eitur, en tønn smyrsli.
túnga leikur vid tanna sár, F (tanni s. s. tønn?)
túngan er ekki bein, samt brýtur hún stundum bein.
tvø eru hófin, og ratar heimskur hvorugt.
tvø húngurmál gjøra hid þridja grádugt.
tvo má gjøra úr einum, ef lengi lifir.
tætir kerlíng úr toglaup sínum.
tøm er hønd á venju (adr., vinnu). Adrir: verdur hønd á venju sús (sjá: sús er hønd, o. s. fr.)

# U.

Ulfur breytir hárum, en ei háttum (ødruvísi P.)
úlfur er í úngum syni.
úlfur er svína sættir (þ. e. þegar úlfurinn kémur, hætta svínin ad bitast).

úlfurian grípur ekki bráð á sjálfs síns mørk.
um veltan stein vex traudla gras.
um ørugt (heilt, P) er best að búa, Karlamagn. S. þ. 1, kap. 4.
una augu meðan á sjá.
undandráttur eyðir framkvæmdum (øðruvísi P).
úngur maður og aldrað skjóð ekki á saman á beði,
úngur nemur, gamall fremur.
úngur skal á úngum vinna, Inntak Vígast. S. (úngr skal at úngum vega, Ísl. S. 1, 339).
úngur skal því venjast, er aldraður vill hafa, Hugsvinnsmál (øðruvísi hin prentuðu).
úr hvørjum vandræðum verður nokkuð að ráða.
urt járn, kvað kerlíng, átti kníf deigan, Þáttur Gulláſu Þórðar.
útfús er illa fenginn eyrir.

# V.

Vafagepillinn verður að manni.
vakandi þarf sá að vera, sem gersimi á að geyma.
valt er að treysta vorísum.
valt er lánsglysið.
valt er vina traust.
vandfarið er með veika heilsu.
vandfenginn er vinur í nauð.
vandfundinn er vinur trúr.
vandhitt er skjól í vandræðum, D.
vandt er að geta þess, hvað undir annars stakki býr (vandt er að geta fyrir annars skap, P).
vandt er að sigla milli skers og báru, samanb. S. Ol. Trygg. Skálh. 2 P. bls. 262.
vandt er að sjá, hvørt fyrr kemur hel eða lángur frami, Orkn. S. bls. 400.
vandt er að vera beggja vin og báðum trúr.
vandt er úr vøndu að ráða.

vantar þad sem vid skal eta.
varla er veslum hent ad deila kappi vid volduga.
vásteytt er annars vinátta, Gulaþ. L. bls. 61.
ved vegur (þ. e. ber) peníng heim.
vegna módurinnar er barnid kyst.
vegur túnga, þó vopn bresti.
veit hvad verda vill, en ei hvad verda kann.
veit hvar í gardi gris er alinn.
veita skal þeim, er veldi hafa.
vel lýgur sá, er med vitnum lýgur, S. Þorst. Sídu-hallss.
vel verdi þér, hrís, þú gjørir børnin vís.
veldr — at sá er varar, Grettis S. kap. 41.
veldur hvør á heldur.
vér eplin med, søgdu hrossatads køglarnir.
verdur hvør ad fara, þá feigur er.
verdur hvør med sjálfum sér lengst ad fara, S. Gísla Surss. kap. 14.
verkid á ad lýa mann, en ekki verkfærid.
verra er ílt, en ekki par (annars: betra er ílt o. s. fr).
verra gjørir vondt lítid.
vertu ad verki þínu, þá djeffi ber ad dýrum.
vesæll er vatnsdaudi.
vetur þekkist af vindum, húsbondi af hjúum.
vex børnum vit, sem vetur fjølga.
vex hvør af gengi, Háttal. Snorra.
víd eru vegamót, sæll er sá sem vel gjørir.
vid heimakvinnum er verst ad sjá.
vid illu er ad búast, gott kemur ekki óvart.
vid æd skal á stemma (at ósi skal á st., Sn. Edd. bls. 114.
vída eru pottar brotnir (adr., vída er pottur brotinn). Í øllum løndum o. s. fr., P.
vída kemur vargi brád.
vidkvæm er ástin.
vidleitnin er eingum bønnud.

vildi hvør þekkja sig, hæddu færri mig.
viljugur er fótur til vinar húsa.
vindræg er væn kráð.
vinnst ad bera vatn á staungum.
vinnur mær vana sinn.
virdíngar ráda viti barna.
vísir fjarri, ver sjaldan (samanb. Ísl. S. 1, 347).
vits er þørf í vangæfu.
vits er þørf þeim vída fer.
vitska er afli betri.
vitska er betri en vænleikur, D.
vona skal hins vildara, þó óvænlega horfi (vona má opt, þó von þyki þrotin, P).
vondt er vana ad kasta.
vondt er vitnalaust mál.
vondur er alltjafnt aumur.
vondur finnari er ekki betri en stelari.
vondur madur missir gjarna annad augad, ad nágranni hans missi sín bædi.
vorkunsamir vorkunsemi mæta, D.
vænt er þad, sem vel er grænt.
vølt er veraldar blídan.
vølt eru láns þíngin.

## Y

Ymist í økla eda eyra (adr., ýmist í økla, ýmist í eyra). Stundum í ø. e. eyra, P.
ýmsir eiga hlut í grautar gerd.
ýmsir eiga skot í reydinni.
ýmsum skiptir ísmunum.

## Þ.

Þá bólan er stærst, er brestíng næst.
þá endirinn er gódur, er allt gott.
þá er efndanna vant, þegar heitid er komid.
þá er eldur gódur inni, þegar frostdíngull hángir úti.

Þá er til hófs dulist, ef háskinn firrist.
Þá fátækur fær kæti, fær hann ólæti.
Þá fokid er í eitt skjól, er ófennt í annad.
Þá gull talar, gefur verøldin hljód.
Þá skal Pétur, ef ekki vill Páll.
Þá stóru klukkurnar hljóma, heyrist ekki til hinna litlu.
Þá verdur eik ad fága, sem undir skal búa (sjá: sá verdur eik ad fága, o. s. fr.)
Þá verdur hvør ad fara, er hann er feigur (adrir: hvør verdur ad fara, þá feigdin kallar).
Þá vísir er fjarri, villast hunángsflugurnar.
Þad á ekki saman síngur og sjóferdir.
Þad á ekki saman slægur og einfaldur.
Þad er allt gott, sem sjálfum semur.
Þad er brák ad bera í bakkafullan læk.
Þad er drjúgt, sem drýpur.
Þad er ei ad launa, sem ei er gjørt.
Þad er eingum list, sem hann leikur ekki.
Þad er einum list, sem hann leikur.
Þad er ekki ad taka, sem ekki er til (þad tekur eingi, sem e. e. t., P).
Þad er ekki ad þakka, sem ekki er veitt.
Þad er ekki afbrigdi, sem allir hafa.
Þad er ekki allt gott í maga, sem í munni er sætt.
Þad er ekki allt, ad á ræsis bord sé beranda.
Þad er ekki allt í katlinum, sem krækt er.
Þad er ekki alltíd best, sem blídast er.
Þad er ekki búmadur, sem ekki kann ad berja sér.
Þad er ekki hægt ad gjøra tvo mága ad einni dóttur.
Þad er ekki kyn, þó þernan líkist húsmódur sinni.
Þad er einskis girnd, sem hann getur ekki.

Það er einum skemtan, sem ødrum er ángur, Eptirmáli Máusar S.
Það er fánýtur saudur, sem ekki ber fat (þ. e. reifi) sitt.
Það er fljótgjørt ad snýta þeim, sem nefid er af.
Það er glatad, sem óþakklátum er gott gjørt, D.
Það er hægt ad smella fíngrum fyrir konúnginum med hendurnar í vøsunum.
Það er íllt ad geyma, sem allir girnast.
Það er íllt ad heita strákur, og vinna ekki til.
Það er íllt ad ljá spóninn, en lepja sjálfur.
Það er íllt ad vera bædi ger og matvaudur.
Það er illur eykur, sem ekki endist kirkjuleid.
Það er illur knífur, sem ekki bítur á púnginn (pýngjuna).
Það er jafnkeypi ad gefa uxa vid kú.
Það er lítid sár, sem ekki svídur.
Það er lítid vit, ad gángast fyrir lit, sjá: sá hefir lítid vit, o. s. fr.
Það er lítill vandi, ad leysa poka úr bandi.
Það er løt (røg, P) hønd, sem ekki ver høfud sitt.
Það er mátulegt (adr., réttast), ad þeim svídi, sem undir míga.
Það er ójafn leikur, ad úlfur eigist vid giltu.
Það er óronum næst, er veslu batnar, S. Alex. mikla, kap. 1.
Það er seint til hunda, þá dýrid hleypur.
Það er sitt hvort, steypir eda stydur.
Það er sjaldan vel veitt, sem lengi er matreidt.
Það er snaudrar stúlku skadi, ad hún er skøpud væn.
Það er skammlaust, ad sá minni víki fyrir þeim meira.
Það er spád, sem spakir mæla, S. Þorl. Bps. helga í Formála.
Það er túngunni tamast, sem hjartanu er kærast.

Þad eru fleiri hundar svartir, en hundurinn prestsins.
Þad eru ill umkeypi, ad taka høgg fyrir hørd ord.
Þad er vel ad breyta, eingan til ills ad reita.
Þad er vesæl mús, sem ekki hefir nema eitt hús.
Þad er vinur, sem vel í vanda reynist.
Þad er vond ær, sem ekki veldur fati (þ. e. reisi) sínu.
Þad er vondur hnífur, sem ekki bítur á púnginn (þ. e. pýngjuna).
Þad er ørg (røg, P) hønd, sem ekki veit høfud sitt.
Þad fer ekki ætíd saman, sælt líf og sóttlausir dagar.
Þad gildir einu hvad í barnkonu er borid.
Þad gildir einu hvar fagurt flakir (adr, flækist).
Þad gjørir eingi, sem hann getur ekki.
Þad hefir eik, er af annari skefur, Harbardsl. 21.
Þad hefir eingi, sem hann hættir eigi til.
Þad hugnast heimskum, ad (adr., þá) honum er hælt.
Þad kemur ei allt óskadt af úlfs munni, sem í kemur.
Þad kemur ekki til af gódu, ad kötturinn hefir klærnar.
Þad lætur hvørjum best, sem hann gjørir lostugur, O.
Þad má eigi allt brjóta, sem brestur er á.
Þad má hinn vondi gjøra, ad verda daudur og eta ekki, (ødruvisi P).
Þad heppnast hvørjum, sem hann er til borinn.
Þad mætist opt kaldt (adr., kránkt) vedur og kollhetta.
Þad orkar (reynir, P) ei á hreysti kappans, fyrr en á hólminum.
Þad skartar á einum (sumum, P), sem skømm er á ødrum.
Þad var vel ad stakka sekk ekki hala.
Þad verdur ad spara, sem lengi á ad vara.
Þad verdur ei allt ad regni, sem røkkur er í lopti, Vígastyrs S. ágrip.
Þad verdur hvør ad vinna, sem ætlad er, Njál. kap. 6.
Þad þurfa margar mýs ad binda køttinn.

Það ætlar hvinn, að hvør muni stela.
Það ætlar svángur, að hann muni aldrei saddur verða (gagnstætt P blſ. 387).
Þángað kemur kaka, sem kona vill.
Þángað stundar barn, sem það finnur sinn líka.
Þángað stundar belgur, sem borinn er.
Þángað vill hvør hníga, sem hann er hallur.
Þar bítur geit, sem gengur.
Þar er auga sem unir (kært er, P).
Þar er dælst á garð að ríða, sem lægst er.
Þar er hvørs gæfa mest, sem getinn er, Ármanns S. kap. 8.
Þar er hønd sem sárt er, auga sem kært er, hjarta sem auðður er (øðruvísi í P blſ. 392).
Þar er lítil duna, sem ein dúfa (dansar) leikur.
Þar er mér úlfs von, er eg eyru sé.
Þar er píka, sem finnur sinn líka.
Þar er ørg vættur, sem hún er nefnd, Ørvarodds S.
Þar gróir (aðr., grær) gras, sem girðt er um.
Þar kemur sá sem það veit, hvað margar eru meyarnar í Melasveit (øðruvísi P).
Þar kom vel á vondan.
Þar leikur hønd á, sem sárt er.
Þar mætist kránkt veður og kollhetta.
Þar reis að undir króki (þ. e. þar hófst vogarleggurinn upp), Sturl. 1, 47. Rángt í P, blſ. 395.
Þar sem sjúkur samandregur kemur ómildur og eyðir.
Þar situr (aðr., bítur; kannske: bíður) bjørn sem bundinn er.
Þar skall skømm, er skyldi.
Þar verður sjaldan búðrjúgt, sem margar eru matseljur.
Þegar kyndugur kemur til kæns, þá hefir kænn ekki við.

Þegar smáfuglarnir þrátta, gjörir gledan sig ad dómara.
Þegar tveir glíma, fellur sá sem minna má.
Þegar tveir þrátta, þykir hvörjum sitt (ödruv. P bls. 400).
Þegar vinid gengur inn, gengur vitid út.
Þegja skal beggja vinur bádum trúr.
Þeim á ekki úr ad aka, sem allstadar fer á kaldan klaka.
Þeim er íllt ad gráta, sem eingi vill hugga.
Þeim er íllt ad þiggja, sem ei veitist af vilja (ödruvísi P bls. 368).
Þeim er öllum borgid, sem Gud bjargar.
Þeim í sólu gánga, skrídur skugginn eptir.
Þeim margt hefir í sinni, fellur margt úr minni.
Þeim skal úr gardi fylgja, sem madur vill ad aptur komi.
Þeim þarf ekki ad verda bragdafátt, sem hefir hjá sér slóttugan og slægan.
Þeir fá byr, sem bída (samb., bídendur eiga byr).
Þeir hafa ekki ad segja af súru, sem aldrei supu nema sætt.
Þeir hafa gagn, sem Gud vill.
Þeir hafa verr, er trygdum slitu, F.
Þeir lifa opt lángan aldur, sem med ordum eru vegnir, Njál. kap. 147.
Þeir segja mest af Olafi konúngi, sem hvörki hafa heyrt hann né séd.
Þess er ekki ad missa, sem ófeingid er.
Þess kennir á beini, hvar broskin er hösa.
Þess minnast fíngur, er fordum unnu.
Þjód veit, ef þrír vita, Hávam.
Þó úvar rísi med mönnum, þykist eingi valda upptökum.
Þróttigur er hvör um annars mein.
Þræll er eingi herra.
Þræll þráir næturkomu, en bandíngi dagsbrún.

Þú slepptir steikinni og sleiktir um fíngurna.
Þúngt veitir gømlum ad gánga í kletta.
Þúngur er synda svefn.
Þuss getur skip, en liggur sjálfur í laudi.
Því deyr margur, ad einginn bjargar (Lilja).
Því lofar margur í sinni neyd, sem hann endir ekki fyrir sinn deyd.
Því sem sínkur samandregur, kemur ómildur og eydir (sjá: Þar sem sínkur, o. s. fr.)
Því skal barni bjóda, sem betur tekur vid.
Því slettir hún kussa halanum, ad hún vill fleiri jafnsaurgar sér.
Þyrpast hrafnar ad hræi.
Þøgn er ekki á þíng færd.
Þøgulmennid er ei allur þar sem hann er sédur, O.

# Æ.

Æ er jørd frosin fyrir óþrifnum (þ. e. løtum svínum (adrir: fyrir óþrifin svín).
æ fellur nokkud úr faranda byrdi.
[redacted] hlær flár, þá annar hlær.
æ kafna kvikssøgur (Sturl. 8, 125) fyrir gódrar konu dyrum.
[redacted] leikur rakki, medan gamall hundur vill.
æ léttist matbyrdin (adrir: nestisbyrdin).
æ skelfur gamall, þó yfir glædum sitji.
[redacted] vill vatn til strandar.
æpa froskar í mýrum, F.
ætíd verdur eitthvad úr vøndu ad ráda.
ætíd vill kerling hafa þrætuþrád sinn.

# Ö.

Ödlíngur skyldi einkar røskur, F.
øfgar um sídir.
øfund dregur illan slóda.
øfund er árrisul (øfund rís árla, P).
øfund kefur alla dygd.
øl segir allan vilja.
øll eru vér brotleg, kvad Abbadís, hún hafdi brók Abóta
undir høfdi.
øll falla løstverk létt.
øll vøtn renna til sjáfar.
ølmusa tæmir eingan púng, og ei messa dagleid.
ølvar þarf sá ad vera, sem løgunum á ad stýra.
ørg er sú hønd, sem ei vill bera blak af høfdi sér.

# Skírsla

## um Bessastaða-Skóla

fyrir Skólaárið 1842—1843.

Samin

af

Jóni Jónssyni *Lect. theolog.* R. af Dbr.

---

Á bladsídu 2ri í skírslu minni fyrir skólaárid frá 1ta Okt. 1841 til 31ta Maii 1842 skirskotadi eg til minnar næstumdangángandi skírslu bls. 11 og 12 um þad hvad skólahúsid á Bessastødum snertir. Í haust ed var, var gjørt vid skólagluggana í lestrarstofunum, og eins vid þau hrørlegu húsakynni, sem Dr. Schevíng býr í; sømuleidis vid þad herbergi í steinfeldu (Bindings-værks) byggíngunni, sem ætlad er þeim lærisveinum sem ætlad er til ad útskrifist þad árid; en þess vidgjørd nádi ei nema til þess, sem ekki vard hjá komist, til þess menn skyldu géta bjargast vid þessi hús þetta árid eins og þau eru; þared Stiptsyfirvøldin eigi þá vissu, og munu naumast vita enn, hvad vid skólann mundi verda gjørt, hvarum menn ekki hafa ordid samdóma, sem sjá má af Tídindum frá vefndarfundum íslenzkra embættismanna í Reykjavík, fyrri deildar bls. 47. 48 og 72—110. Mína meiníngu í þessu efni hefi eg látid í ljósi skriflega í skrifudu ritkorni sendu Siftsyfirvøldunum árid 1838. Um steinbyggínguna er þad ad segja, ad þakid þarf endurbótar vid, ef húsid á ad brúkast handa skólanum, eins og híngad til, og hvørt sem er, ef þad á ekki ad skémmast af leka. Sárkallt er og í svefnloptum lærisveinanna, þegar mikid frost gerir; rúmføt skólalærisveinanna eru ekki heldur svo hlý, sem medþarf í svo køldum svefnherbergjum. Þó verdur þessi galli vitkvæmastur, þegar einhver lærisveinanna sýkist, þared ekkért herbergi er til handa sjúklíngum á Bessastødum; og heppni var þad, ad eingum vard þad til sérlegs meins, eda ekki fleiri sýktust í vetur, þegar

6 til 8 lærisveinar urdu um tíma rúmfastir; sem mikid mun meiga þakka þeirri umhyggiu, er fyrir þeim sjúku var borin.

Bókahyrslan í kirkjuloptinu, um hverja er gétid í skírslu minni ár 1840—41 bls. 12, er líkt á sig komin eins og þar er umgétid.

---

Í Bessastada skóla hafa þetta ár verid eins margir reglulegir lærisveinar eins og þau undanförnu, nefnilega 40 alls, og þeim verid eins skipt, einúngis í 2 flokka, Efra og Nedrabekk, því til meiri skipta vantar bædi rúm og kennara (sjá skírslu m. 1840—41 bls. 14—16); en þarad auki hafa 6 aukalærisveinar notid kauplaust uppfrædíngar med Nedrabekkjar lærisveinum, med sama skilyrdi sem gétid er um í nýnefndri skírslu minni. 5 þessara nutu tilsagnar í öllu, sem í Nedrabekk hefir verid kénnt í vetur, en 1 ekki nema í nokkru, er þar hefir verid kénnt, því hann var mjög stutt kominn í skóla lærdómi.

Þeir 40 lærisveinar (ad ótöldum aukalærisveinum), er tilsagnar hafa notid í skólanum þetta ár, eru 20 embættis-manna synir, 19 bænda og handydna manna synir [1], og 1 kaupmanns sonur. 19 þessara 40 lærisveina hafa árid sem leid notid heillrar ölmusu, en 10 hálfrar; hinir 11 hafa eingrar ölmusu notid, 8 þessara 11 sídast nefndu [2] hafa eigi verid nema 1 ár í skóla vorum (sjá skírslu m. fyrir árid 1841—1842 bls. 4).

Sjö útskrifast úr skóla vorum í ár, og sýnir med-fylgjandi Tabla A hverjir þad eru og hvernig þeim hefir

---

[1]) Med bænda sonum tel eg þá, hverra fedur búa sem bændur þó Stúdentar séu.

[2]) Eigi vóru ad sönnu vorid 1842 nema 6 útskrifadir, en 2, var rádid frá ad halda áfram skólalærdómi végna óhæfilegleika þeirra til vísindalegra bókmenta; þessvegna gátu 8 nýir inntekist í skólann í haust ed var.

A

(Til bls. 4.)

# Tabla

um það, hvernig hverjum af þeim, sem útskrifuðust, tókst í því opinbera lærdómsprófi þann 22ann 24ða 26ta og 27ða Maí 1843, í hverri lærdómsgrein útaf fyrir sig.

| Nøfn Lærisveinanna. | Latína. | Lat. stíll. | Griska. | Danska. | Dansk. stíll. | Ísl. stíll. | Hebreska. | Útsk. N. T. | Trúar. lærd. | Veraldarsaga. | Landaskipfr. | Rúmmálsfr. | Reikn. list. | Høfuðtala. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1. Eiríkur K. Sivertsen. | ág. | dável | ág. | ág. | dável | vel | ág. | ág. | ág. | ág. | ág. | ág. | ág. | 102 |
| 2. Jónas Gudmundsson. | ág. | dável | ág. | ág. | dável | vel | ág. | ág. | ág. | ág. | ág. | ág. | ág. | 102 |
| 3. Sveinbjørn Gudmundsson. | dável | vel | dável | dável | dável | vel | ág. | ág. | ág. | sæmil. | dável | ág. | ág. | 90 |
| 4. Jón Arnason. | dável | vel | dável | vel | vel | vel | *dável | ág. | dável | ág. | ág. | ág. | ág. | 89 |
| 5. Bjarni Gunnarsen | vel | dável | vel | vel | dável | vel | vel | dável | dável | vel | ág. | ág. | ág. | 85 |
| 6. Sigbjørn Sigfússon. | vel | vel | vel | dável | vel | vel | dável | vel | dável | vel | dável | ág. | ág. | 81 |
| 7. Arni Bødvarsson. | vel | vel | vel | vel | vel | vel | dável | vel | vel | dável | vel | dável | ág. | 77 |

1. Athugagrein: Stjarnan (*) merkir, að Griska hefir verið lesin staðinn fyrir Hebresku.

2. ——— Tveir af þeim sem í Majó 1842 útskrifuðust frá Bessastaða skóla: Brinjólfur Snorrason og Haldór Friðriksson (sjá Skírslu mína fyrir Skólaárið 1841—1842) løgðu sig í haust eð var undir fyrsta Háskólans lærdómspróf (Examen Artium) og feingu báðir. Laudabilis; en þaraðauk lagði sig Gísli Jóhannesson, útskrifaður frá nefndum Skóla í Majó 1840 (sjá í skírslu minni fyrir Skólaárið 1840—1841 fylgjandi Tøblu B. c.) líka undir Háskólans fyrsta lærdómspróf og fékk Haud illaudabilis, og þikir mér ekki ólíklegt, að þessi líka hefði feingið Laud: ef hann hefði siglt, sama ár sem hann útskrifaðist.

tekist í því opinbera lærdóms prófi (den offentlige Examen). Hafa 5 þeirra í 6 ár notid tilsagnar í Bessastada skóla, 1 notid þar 5 ára tilsagnar og 1 notid þar uppfrædíngar í 4 ár. **Einn** notid þar 1 árs ölmusu, **annar** 3 ára, **þridji** $3\frac{1}{2}$ árs, **fjórdi** 4 ára, **fimti** $4\frac{1}{2}$ árs, **sjötti** 5 ára og **sjöundi** $5\frac{1}{2}$ árs ölmusu.

Sömuleidis sýnir **Tablan B** hvernig þeim lærisveinum, sem eptir verda í skólanum tókst í því opinbera lærdómsprófi þann 22—24 og 29da Maí mánadar þ. á. og hvernig þeirra röd verdur eptir því. Í fírstu minni fyrir skóla-árid 1840 — 1841 bls. 16 og 17 og fyrir árid 1841—1842 bls. 6 og 7 hefi eg þess gétid eptir hverjum reglum skólalærisveinarnir nidurradast. Sömuleidis eptir hverri reglu þeir takast upp í Efrabekk úr Nedrabekk og ad hinir nýu setjist þá í hverjum bekk nedstir. Samkvæmt nefndum reglum vard lærisveinanna röd þessi í haust ed var. **A. Í Efrabekk:** 1) Jónas Gudmundsson. 2) Eiríkur K. Sivertsen. 3) Bjørn Haldórsson. 4) Sveinbjørn Gudmundsson. 5) Jón Arnason. 6) Sigbjørn Sigfússon. 7) Laurus Mich. Jónsson. 8) Gudmundur Bjarnason. 9) Snorri J. Nordfjørd. 10) Steindór Stephánsson. 11) Arni Bødvarsson. 12) Arni Gíslason. 13) Bergur Haldórsson. 14) Bjarni S. Gunnarsen. 15) Þórdur Thorgrimsen. 16) Jón Sigurdsson. 17) Jón Jónsson. 18) Gísli Brínjulvsen. 19) Finnur Thorsteinsson. 20) Oddur Hallgrímsson. 21) Magnús Gíslason. 22) Oddur Sveinsson. 23. Þorvaldur Bødvarsson. **B. Í Nedrabekk:** 1) Jóhann K. Benediktsson. 2) Bogi Thorarensen. 3) Jónas Thorsteinsen. 4) Jón Audun Bløndal. 5. Eiríkur Jónsson. 6) Benedikt Kristiánsson. 7) Gunnlaugur Guttormsson. 8) Stephán Gudnason. 9) Gunnar Hallgrímsson. 10) Benedikt Grøndahl. 11) Jón Snæbjørnsson. 12) Bjørn Pétursson. 13) Páll Jónsson. 14) Magnús H. Thorlacius. 15. Magnús Grímsson. 16) Fridr.

Bjarnason Thorarensen. 17) Gudmund. Einarsson[3]. Allir í Efrabekk hér nefndir lærisveinar, og eins Nr. 1—9 sem nefndir eru í Nedrabekk urdu eptir í skólanum vorid 1842. Nr. 17—23 í Efrabekk fluttust þángad úr Nedrabekk í byrjun Október mánadar sama ár, en þeir 8 sem nedstir standa í Nedrabekk vóru þá innteknir í stad þeirra sem burt fóru vorid næst á undan, nefnil. þessir: 1. Bened. Grøndal, sonur skólans kénnara Sveinbjørns Egilssonar. 2. Jón Snæbjørnsson, sonur Snæbjørns sál. Bjørnssonar, Prests í Vestmannaeyum. 3. Bjørn Pétursson, sonur bónda Pét. Péturssonar á Midhópi í Húnavatns sýslu. 4. Pall Jónsson, sonur bónda Jóns Pálssonar á Fjalli í Hólasókn í Skagafyrdi. 5. Magn. H. Thor-

[3]) Nokkud umbreittist rødin í bekkjunum vid midsvetrar lærdómsprófid, hún vard þessi: *A)* I Efrabekk: 1. Eir. K. Sivertsen. 2. Jónas Gudmundsson. 3. Jón Jónsson. 4. Bjorn Haldórsson. 5. Gísli Brinjulvsen. 6. Sveinbjorn Gudmundsson. 7. Laurus M. Johnsen. 8. Jón Arnason. 9. Sigbjorn Sigfússon. 10. Gudm. Bjarnason. 11. Arni Bodvarsson. 12. Bjarni Gunnarsen. 13. Snorri Nordfjord. 14. Steindór Stefánsson. 15. Þórd. Thorgrimsem. 16. Arni Gíslason. 17. Jón Sigurdsson. 18. Finnur Þorsteinss. 19. Oddur Hallgrímss. 20. Magnús Gíslason. 21. Bergur Haldórsson. 22. Þorvaldur Bodvarsson. 23. Oddur Sveinsson. *B)* I Nedrabekk: 1. Jóhann K. Benediktsson. 2. Bened kt Grondal. 3. Eiríkar Jónss. 4. Bogi Thorarensen. 5. J. A. Blondal. 6. Stefán Gudnas. 7. Magn. H. Thorlacius. 8. Jón Snæþjørnss. 9. Gunnar Hallgrímsson. 10. Pall Jónsson. 11. Gunnláugur Guttormsson. 12. Jónas Thorsteinsen. 13. Benedikt Kristjánsson. 14. Magnús Grímsson. 15. Bjorn Pétursson. 16. Fridrik Bjarnas. Thorarensen. 17. Gudm. Einarsson. En þad álitum vér ekki adallærdómspróf; en þó leggst þad ad því leiti til grundvallar adal-lærdómsprófinu, sem er á vorin, ad sá setst ofar, sem eptir því hafdi ofar sæti, ef vitnisburdir verda jafnir.

# Tabla

um það, hvörnig þeim skólalærisveinum, sem eptir urðu, tókst í því opinbera lærdómsprófi í Majó 1843 í hvörri lærdómsgrein útaf fyrir sig.

| Nöfn Lærisveinannna | Latína. | Lat. stíll. | Gríska: | Danska. | Dansk. stíll. | Ísl. stíll. | Hebreska. | Útsk. N. T. | Kristil. Trúarl. | Veraldar saga. | Landa. skip. fr. | Rúmmáls-fr. | Höfuðtala. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1. Jón Jónsson. | dável | vel | ágjætl. | ágjætl. | vel | —„— | ágjætl. | ágjætl. | ágjætl. | ágjætl. | ágjætl. | ágjætl. | 86 |
| 2. Björn Haldórsson. | lagdist rúmfastur rétt ádur enn yfirheyrslan byrjadi, enn var lengi sjúkur á undan. | | | | | | | | | | | | |
| 3. Gísli Brinjúlvsen. | vard sjúkur fyrir byrjun upplestrartímans, og fór sjúkur inn til módur sinnar í Reykjavík. | | | | | | | | | | | | |
| 4. Steindór Stephánsson. | dável | sæmil. | ágjætl. | vel | vel | —„— | *ágjætl. | ágjætl. | dável | ágjætl. | ágjætl. | ágjætl. | 79 |
| 5. Gudmundur Bjarnason. | vel | sæmil. | vel | —„— | vel | —„— | *„— | dável | dável | dável | ágjætl. | vard sjúkur. | |
| 6. Arni Gíslason. | dável | vel | dável | dável | vel | —„— | vel | dável | dável | ágjætl. | ágjætl. | ágjætl. | 78 |
| 7. Jón Sigurdsson. | dável. | vel | dável | dável | vel | —„— | ágjætl. | dável | dável | ágjætl. | ágjætl. | vel. | 78 |
| 8. Laurus M. Johnsen. | vel | sæmil. | ágjætl. | dável | vel | —„— | dável | ágjætl. | dável | ágjætl. | ágjætl. | ágjætl. | 77 |
| 9. Finnur Þorsteinsson. | vel | vel | dável | vel | sæmil. | —„— | *vel | dável | dável | ágjætl. | ágjætl. | ágjætl. | 74 |
| 10. Oddur Hallgrímsson. | dável | sæmil. | vel | dável | sæmil. | —„— | dável | dável | ágjætl. | dável | ágjætl. | ágjætl. | 74 |
| 11. Magnús Gíslason. | vel | vel | dável | dável | vel | —„— | dável | dável | vel | dável | ágjætl | ágjætl. | 74 |
| 12. Þórdur Þorgrímsson. | sæmil. | sæmil. | ágjætl. | ágjætl. | vel | —„— | *ágjætl. | vel | vel | ágjætl. | ágjætl. | ágjætl. | 73 |
| 13. Bergur Haldórsson. | vel | vel | dável | vel | vel | —„— | ágjætl. | dável | vel | vel | ágjætl. | ágjætl. | 73 |
| 14. Oddur Sveinsson. | vel | sæmil. | dável | vel | sæmil. | —„— | vel | dável | vel | dável | ágjætl. | dável | 67 |
| 15. Þorvaldur Bödvarsson. | vard sjúkur fyrr enn yfirheyrslan byrjadi. | | | | | | | | | | | | |
| 16. Snorri Nordfjörd. | sæmil. | sæmil. | vel | vel | vel | —„— | sæmil. | dável | vel | vel | ágjætl. | dável | 62 |
| 1. Jóhann Kn. Benidictsson. | var sjúkur fyrir og um upplestrartímann og fékk heimfararleifi. | | | | | | | | | | | | |
| 2. Eiríkur Jónsson. | dável | vel | ágjætl. | ágjætl. | vel | vel | ágjætl. | —„— | dável | ágjætl. | ágjætl. | ágjætl. | 82 |
| 3. Jónas Thorsteinsen. | ágjætl. | vel | ágjætl. | ágjætl. | vel | vel | dável | —„— | dável | dável | ágjætl. | ágjætl. | 81 |
| 4. Benidict Gröndal. | dável | vel | ágjætl. | ágjætl. | dável | vel | dável | —„— | dável | ágjætl. | ágjætl. | vel | 80 |
| 5. Jón Audunn Blöndahl. | var leingi sjúkur um upplestrartímann af augnveiki og lagdist því ei undir próf. | | | | | | | | | | | | |
| 6. Bogi Thorarensen. | dável | sæmil. | ágjætl. | ágjætl. | vel | vel | vel | —„— | ágjætl. | ágjætl | ágjætl. | ágjætl. | 79 |
| 7. Benedict Kristjánsson. | dável | vel | dável | dável | vel | vel | *dável | —„— | dável | ágjætl | ágjætl | dável | 77 |
| 8. Magnús Thorlacius. | dável | vel | dável | dável | dável | vel | vel | —„— | vel | ágjætl | ágjætl. | ágjætl. | 76 |
| 9. Björn Pétursson. | vel | vel | dável | dável | vel | dável | dável | —„— | dável | dável | ágjætl. | ágjætl. | 76 |
| 10. Páll Jónsson. | dável | sæmil. | dável | dável | vel | vel | dável | —„— | vel | ágjætl. | ágjætl. | ágjætl. | 73 |
| 11. Gunnlaugur Guttormsson. | dável | vel | dável | dável | vel | vel | vel | —„— | vel | vel | ágjætl. | ágjætl | 73 |
| 12. Stephán Gudnason. | vel | vel | dável | vel | vel | vel | *vel | —„— | vel | ágjætl. | ágjætl. | dável | 71 |
| 13. Jón Snæbjörnsson. | vel | vel | dável | dável | vel | vel | *vel | —„— | vel | dável | ágjætl. | dável | 71 |
| 14. Gunnar Hallgrímsson. | vel | sæmil. | dável | dável | vel | sæmil. | *dável | —„— | vel | dável | ágjætl. | vel | 67 |
| 15. Magnús Grímsson. | dável | sæmil. | dável | vel | vel | vel | —„— | —„— | vel | vel | ágjætl. | dável | 64 |
| 16. Fridrik Bjarnason. | vel | sæmil. | sæmil | vel | sæmil. | vel | *vel | —„— | vel | sæmil. | ágjætl. | dável | 60 |
| 17. Gudmundur Einarsson. | sæmil. | sæmil. | laklega | vel | sæmil. | vel | —„— | —„— | vel | vel | ágjætl. | ágjætl. | 54 |

**Athugagrein:** Stjarnan (*) þýdir hér ad Gríska hefir verid lesin í stadinn fyrir Hebresku.

lacius, sonur Prófasts Hallgríms Thorlaciusar á Hrafnagili í Eyafjardar-sýslu. 6. Magn. Grímsson, sonur bónda Gríms Steinólfssonar á Grímsstødum í Reykholtsdal í Borgarfjardar-sýslu. 7. Fridrik B. Thorarensen, sonur Stúdents Bjarna Fr. Thorarensens á Stóra-Osi í Midfyrdi í Húnavatns-sýslu, og 8. Gudmundur Einarsson, sonur Einars Bjarnasonar, rádsmanns á Mælifelli í Skagafjardar-sýslu.

Hálfar ølmusður veittu Stiptsyfirvøldin í sumar sem var eptirfylgjandi Efrabekkjar lærisveinum Nr. 3. 8. 18. 19. og 21, eptir rødinni háustid 1842, svo ad Nr. 3. 8. 19 og 21 hafa notid þetta ár heillrar ølmusðu. Sømuleidis veittu þau Nedrabekkjar lærisveinum Nr. 1. 2. 3. 5. 6 og 9 hálfa ølmusðu hverjum, en eingir þessara høfdu nokkurn ølmusðu stirk ádur. Héradauk hafa Stiptsyfirvøldin í ár, eptir géfnum myndugleika 22 Apr. 1819, veitt eptir minni beidni þessum lærisveinum stirk til ad borga þær bækur, sem þeir í vetur gátu ekki án verid:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1. | Þórdi Thorgrimsen . . . . . | 1 rbd | 58 ß |
| 2. | Jóni Jónssyni . . . . . . . | 5 — | 82 — |
| 3. | Magnúsi Gíslasyni . . . . . | 3 — | 20 — |
| 4. | Magnúsi Grímssyni . . . . . | 7 — | 15 — |
| 5. | Bergi Haldórssyni . . . . . . | 6 — | 62 — |
| 6. | Þorvaldi Bødvarssyni . . . | 3 — | 63 — |
| 7. | Gunnari Hallgrímssyni . . . | 2 — | 20 — |
| | Er | 30 rbd | 32 ß |

Eins og mørg undanfarin ár, allt frá árinu 1819, hefir hid konúnglega Stjórnarrád Háskólans og enna lærdu skóla þetta ár sendt þær bækur, sem vér høfum bedid um handa skólalærisveinum og eptirgéfid þeim $\frac{1}{3}$ part bókhlødu verds, sem er ekki lítill léttir. Skólans kénnari Hra Sveinbjørn Egilsson hefir þetta ár, tekist á hendur bókasøluna, eins og mørg undanfarin ár. Héradauki hefir nefnt Stjórnarrád sendt bókasafni skólans þessar bækur:

Lalandes Logarithmer.

Ramus Trigonometrie.
Kellners deskriptive Geometri.
Rottecks Verdenshistorie 1—4 Hefte.
P. Møllers Logik.
Baumgarten-Crusius biblische Theologie.
Beckers Verdens Historie. Framhald af því ádur senda.
Kroyers naturhistoriske Tidsskrift. Framhald.
Historisk Tidsskrift II. 2. III. 1.
Clausens og Hohlenbergs theologiske Tidsskrift Aargang 1841.
Scharlings og Engelstofts theol. Tidsskr. Framhald.
Universitetets Aarbog ár 1840.
Academiske Tidender. Framhald.
*Stephani thesaurus lingvæ græcæ Fasc.* 25. 26.
Jahns danske Auxiliærtropper II, 1. 2.
Molbecks Dialektlexicon 7de Hefte.
Leugnicks Stamtavler, een Levering.
Brage og Idun IV, 1. 2.
Orion IV, 3.
Erslevs Forfatter-Lexicon 1 og 2 Hefte.
Mansas Kort, 2 over Jylland.
Sternes Beskrivelse over Kjøbenh. 3je Hefte med Bilager.
Det statistiske Tabelværk 4de Hefte.
Budgetet for 1841.
Schouws og Eschrichts Afbildninger 7de Hefte.
Rasks Morskabslæsning fyrir 1841 Nr. 1—17 vanta þó nokkur Nummer.
Pétursons *historia ecclesiastica Islandiæ.*
Bøyesens Haandbog i de græske Antiqviteter.
Sammes Haandbog i de rommerske Antiqviteter
Madvigs Bemærkninger til hans Grammatik.
*Ciceronis orationes selectæ edid: Madvig.*
Svenningsen Geometri.
Med þessum nefndu bókum vóru og af því háttnefnda Stjórnarrádi send bodsrit (Programmata) margra skóla, Sór-

(Til bls. 9.) C

# Lestrar-tabla

## fyrir Bessastaða-skóla, skóla-árið 1842—1843.

| Klukkustundir. | Mánudagur. | Þriðjudagur. | Miðvikudagur. | Fimtudagur. | Föstudagur. | Laugardagur. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| f. m. 8—9. | Eb. Latína Sch.<br>Nb. Griska S. E. | Eb. Latína. Sch.<br>Nb. ísl. St. B. G. | Eb. Latína. Sch.<br>Nb. D. St. B. G. | Eb. Latína. Sch.<br>Nb. ísl. St. B. G. | Eb. Latína. Sch.<br>Nb. D. St. B. G. | Eb. Latína. Sch.<br>Nb. Ehl. L. St. S. E. |
| f. m. 9—10. | Eb. Griska S. E.<br>Nb. Latína. Sch. | Eb. D. St. J. J.<br>Nb. Ehl. L. St. Sch.<br>Nhl. L. St. B. G. | Eb. og Nb.<br>Veraldar-saga<br>S. E. | Eb. og Nb.<br>Veraldar-saga<br>S. E. | Eb. og Nb.<br>Veraldar-saga<br>S. E. | Eb. og Nb.<br>Veraldar-saga<br>S. E. |
| f. m. 10—11. | Eb. Rúmmfr. B. G.<br>Nb. Trlærd. J. J. | Eb. Griska. S. E.<br>Nb. Latína. Sch. | Eb. Griska. S. E.<br>Nb. Latína. Sch. | Eb. Griska. S. E.<br>Nb. Latína. Sch. | Eb. Griska. S. E.<br>Nb. Latína. Sch. | Eb. Griska. S. E.<br>Nb. Latína. Sch. |
| f. m. 11—12. | Eb. Trlærd. J. J.<br>Nb Ehl. L. St. Sch.<br>" Nhl. L. St. B. G. | Eb. Trlærd. J. J.<br>Nb. Griska. S. E. | Eb. Trlærd. J. J.<br>Nb. Griska. S. E. | Eb. Trlærd. J. J.<br>Nb. Griska. S. E. | Eb. Trlærd. J. J.<br>Nb. Griska. S. E. | Eb. Trlærd. J. J.<br>Nb. Griska. S. E. |
| e. m. 2—3. | — " — | Eb. Lskfr. B. G.<br>Nb. Trlærd. J. J. | Eb. Rúmmfr. B. G.<br>Nb. Trlærd. J. J. | Eb. Rúmmfr. B. G.<br>Nb. Trlærd. J. J. | Eb. Rúmmfr. B. G.<br>Nb. Trlærd. J. J. | Eb. Danska. S. E.<br>Nb. Trlærd. J. J. |
| e. m. 3—4. | — " — | Eb. Utsk. N. T. J. J.<br>Nb. Danska. B. G. | Eb. Hebreska. J. J.<br>Nb. Rlist. B. G. | Eb. Utsk. N. T. J. J.<br>Nb. Danska. B. G. | Eb. Utsk. N. T. J. J.<br>Nb. Lskfr. B. G. | Eb. Hebreska. J. J.<br>Nb. Rlist. B. G. |
| e. m. 4—5. | — " — | Eb. L. St. Sch.<br>Nb. Rlist. B. G. | — " — | Eb. D. St. J. J. og S. E.<br>Nb. Ehl. L. St. Sch.<br>" Nhl. L. St. B. G. | Eb. Lat. St. Sch.<br>Nb. Rlist. B. G. | — " — |

Hér fyrir utan kénnir *Lector* Hebreska málfræði (Hebraiske *Grammaticalia*) þeim efstu í nedri bekk 2 tíma hvørja viku.

Skgr: J. J. þýðir *Lector* Jón Jónsson. Sch. *Dr.* Scheving. S. E. kénnara Sveinb. Egilsson. B. G. kénnara Bjørn Gunnlaugsson. L. St. þýðir: Latínskann stíl. D. St. Danskann stíl. ísl. St. íslendskann stíl. Lskfr. Landaskipunarfræði (Geographi). Rlist. Reikningslist. Rúmmfr. Rúmmálsfræði (Geometri). Trlærd. lærdóm kristilegrar trúar. Utsk. N. T. Urskíring Nýa-testamentisins (Exegese). Eb. þýðir Efribekk. Nb. Nedribekk. Nb. Ehl. efri hluta, en Nhl. nedri hluta nedrabekkjar.

eyar Academiis og Kaupmannahafnar Háskóla til ýmis-legs hátídarhalds; sømuleidis 4 Dispútatiur og ætlunarverk Háskólans Sóreyar Academiis fyrir þá í hondfarandi kénnslu ár (*Prælections Cataloger*) og tøblur um þad hverja vitn-isburdi þeir feingid hefdu í hverri lærdómsgrein fyrir sig, sem í Október 1841 høfdu lagt sig undir hid fyrsta opin-bera lærdómspróf (Examen Artium) á nefndum Háskóla.

---

Allir eru kénnararnir hinir sømu, sem tveggja undan-farinna ára skírslur nefna, og hafa allir í mørg ár verid kénnarar skóla vors, og kénnt hid sama þetta ár, sem und-anfarin ár, og eins margir tímar verid ætladir þeim, er lestrar-tabla þessa árs C gløgglega sýnir. Mér hugkvæm-ist því ekki ad hérvid sé fleiru ad bæta enn því, hvad hver kénnari sérílagi hefir yfirfarid med skólalærisveinunum þetta ár og hvernig; og læt eg hvørn segja frá því sjálfann, einsog eg gjørt hefi í mínum undanførnu skírslum.

1) **Lector Jón Jónsson.** Eg hefi kénnt: a) Í Esrabekk lærdóm kristilegrar trúar og lagt til grund-vallar, eins og mørg undanfarin ár, *Dr.* Fogtmanns lærdómsbók, vegna þess eg þekki ekki adra hentugri (sjá Skóla-skírslu m. fyrir árid 1841—1842 bls. 11)[*] og hefi

---

[*]) Marheinekes Lærebog i christelig Tro og Levnet for tænkende Christne, Kh. 1842 hefi eg lesid; ordid og var vid ad einstakir menn hafi haldid hana hentuga til ad leggja til grundvallar í kénníngu kristilegrar trúar í lærdum skólum. Titilbladsins ord: „for tænkende Christne", sýnir ad bókin er ekki upprunalega til þess gjørd, heldur ætlud til ad vera uppbyggingar bók líkt og *Dr.* Mynsters Hugleidíngar, þó ødruvísi sé løgud; en ad nefnd bók sé hentug ad leggjast til grundvallar í lærdum skólum, er ekki mín trú. Eg held mér til þess fornkvedna: „*qvi bene distingvit bene docet*", en þad verdur ad skiljast med *grano salis*; smá-smugleg sundurlidan lærdóma, er leidinleg og allann anda drepandi, eins og hid gagnslæda leidir inní þoku.

yfirfarid í henni § 105 bókina út. En þared tími vard af-gángs yfirfór eg og útlistadi sömu bókar §§ 47 og 48; þó bætti eg ekki miklu vid þad, sem stendur í § 47, allt til 5tu skíríngargr., en var þess lángordari um hitt; þó ekki eginlega um annad enn þad sem drepid er á í 5tu skíríng-argreininni, en hinar eptirfylgjandi skíríngargr. tók eg þar inní, og eins § 48, sem eg ekki útlistadi útaf fyrir sig; tíminn leifdi þad ekki heldur. Höfudatridi sálarfrædinnar yfirfór eg, sem § 47 skrg. 5 géfur tilefni til; en ad eg hafi mátt yfirfara hana stuttlega má nærri géta. Í tilliti til nidurrötunar fylgdi eg helst *Dr.* Mynsters sálarfrædi, rádfærdi mig þó vída vid *Dr.* Sibberns helst sídara part Sálarfræda hans og líka vid *Dr.* Martensen Grundrids til Moralphilosophiens System, sérdeilis hvad viljan snertir. Þad er audskilid ad eg muni ekki hafa farid lángt hér í, því þad hefdi verid á órettum stad, og eg líklega ekki heldur madur til þess. Einúngis ætladi eg til, ad þetta skyldi géra mér audveldara ad útlista ad vetri kom-anda 2. kap. Fogtmanns lærdómsbókar, ef Gud lætur mig lifa svo leingi, og mér verdur þess audid. b) Í Ned-rabekk hefi eg yfirfarid og útlistad Fogtmanns lærdóms-bókar 1ta kap. og 2r kap. 4da atridi. Fáeina tíma, sem mér urdu afgángs, hagnýtti eg til ad yfirfara 4 Mós. b. 4 kap. frá 14 v. kap. út. c) Í N. T. hefi eg í Efra-bekk þetta skólaár útlagt og útlistad Páls Postula bréf til Rómverja. d) Í Hebresku hefi eg sömuleidis í Efra-bekk lesid og útlagt 23—40 kap. 1 bókar Mósis, ad þeim kapítulum undanteknum, sem ekki er ætlad til ad lesnir séu í skólanum. e) Hefi eg, eins og undanfarin ár, leidrétt 1sinni í viku allra Efribekkinga dönsku stíla, og hjá ödr-um hvörjum lærisveini annann dag vikunnar, en medkénn-

ari minn Hra Sveinbjørn Egilsson hefir leidrétt hins helmingsins dønsku stíla. Stílsefnin (Themata) vóru allt framm ad Jólum á íslendsku og ýmislegs innihalds; en eptir Jólin á látínu, tekin úr Ciceronis bók de amicitia. Einusinni eptir midjan vetur, þann dag, sem eg átti ad lagfæra allra Efrabekkjar dønsku stíla, setti eg þeim fyrir, í stad stílefnis, spursmál gudfrædum vidkomandi (eins og í mørg ár einhvørn tíma á hvørju ári hefi gjørt) til skriflegrar úrlausnar á dønsku, og var þeim þartil ætlud 1½ allt ad 2 klukkustundum. Eg sat sjálfur yfir þeim á medan þeir svørudu spursmálinu og tók sidan svør þeirra heim med mér.

Í øllu þessu hefi eg hagad mér á líkan hátt sem eg ádur í skírslum mínum hefi umgétid, sérdeilis í skírslu m. ár 1841—42 bls. 11 og 12.

Héradauk hefi eg, á þeim tíma sem lærisveinunum og mér vóru hentugastir, yfirfarid med 2ur Nedrabekkjar lærisveinum, Jóni A. Bløndal og Byrni Péturssyni, Lindbergs høfudatridi hebreskrar málfrædi (Hovedtrækkene af den hebr. Grammatik) 2svar í viku, en þegar búinn var kabli og kabli, upprifjadi eg sama fyrir hinum bekkjarins lærisveinum, er þessi málfrædi høfdu í fyrra yfirfarid. Annar þeirra sem fyrst byrjadi í vetur, lá um hríd sjúkur, hvørsvegna eg svo lítid gat yfirfarid í 1 Mósis bókar 4da kapítula.

2) **Dr. Scheving.** Eptir þad, ad eg skóla-árid 1842—43 hafdi látid Nedrabekkjar lærisveina yfirfara, eptir Madvigs lat. málfrædi, hinar latinsku nafna og sagna breytingar ásamt enu helsta þarad lútanda, las eg fyrst 5 fyrstu bækur af Cæsars bello gallico og sídan 3 fyrstu bækur af Virgils Æneis, og lagfærdi tvisvar í viku lat-

ínska stíla þeirra 12 lærisveina, er settust efstir í bekkinn í haust er var. Med þeim í Efrabekk yfirfór eg öll Ciceros officia og bádar bækur sendibréfa Horatiusar, Arte poetica (skáldu) medtaldri. Af því fáeinir tímar urdu afgángs eptir það eg var búinn med það, sem vant er ad lesa í latínskum rithöfundum í Efrabekk, yfirfór eg stuttlega þau Metra (lög), sem koma fyrir í þeim Odum (Odkvædum) Horatiusar, sem lesnar eru í skólanum. Loksins hefi eg, eins og ad undanförnu, lagfært latínska stíla Efrabekkjar lærisveina tvisvar í viku.

3) Kénnari Sveinbjörn Egilsson. Skólaárid 1842 — 3 lét eg Nedrabekkjar Lærisveina fyrst lesa upp hinar grisku nafna og sagna breytíngar, eins og eg hefi fyrri gjört. Þared tíminn hefir ekki leyft mér ad gegnumgánga sérílagi ordamyndanir eda ordaskipan í þessu máli, þá hefi eg látid mér nægja ad benda til þess helsta af þessháttar, þegar tækifæri hefir bodist til þess í þeim rithöfundum, sem í hvört sinn hafa verid lesnir. Medfram hefi eg stundum bendt til ordaleidíngar (quantitas) ad því leiti sem hljódgreinir (accentus) og hljódsetning geta til sagt. Þannig yfirfór eg med þessum Bekk Xenófons anabasis frá byrjun 6ta kap. í 4da bók og út þá 3 kap., sem eptir voru af bókinni, og svo út alla 5tu bók, sem eru 10 kap., eptir þeim kapítula skiptum sem eru í útgáfu C. H. Weisa, Leips. 1828. Þá fáu daga sem eptir voru, þá lokid var hinni 5tu bók, lét eg Lærisveina yfirfara það merkilegasta um hinar grisku málýskur, ordaleidingar, hljódsgreinir og hljódbreytingar, eptir Langes grisku Ordafrædi. Eg hefi, eins og vant er, lagfært einu sinni í viku latínska stíla þeirra 12 Lærisveina, sem settust efstir í bekkinn í haust ed var

Med Efrabekkjar Lærisveinum yfirfór eg fyrir Jólin Lúsians „Bión Prasin" (manna sǫluna) og „Halieа" (fiskimanninn), en eptir Þrettánda 21tu og 22ra bók Odysseifsdrápu, og af því þá var nokkurr tími af gángs, þá lásu Lærisveinar allan Lúsians Tímon, og hlýddi eg þeim yfir hann á hvǫrjum degi jafnódt, og spurdi hvǫrn einn dálítid út úr. Í skáldmælunum lǫgdu Lærisveinarnir sig eptir ad frambera versin eptir réttum braglidum, og leidrétti eg í lestrinum þad sem eg héldt þǫrf á vera. En af því þessi tilsǫgn mín vard heldur á stángli, þá las eg þeim fyrir í nokkura morgna fáeinar athugasemdir þar ad lútandi, med æfíngardæmum teknum úr Homeri Odyssea, helst þeim 2 bókum, sem vid lásum í vetur, og fáeinum úr Ilias. Í dǫnskum skáldskap lásu Lærisveinar Rahbekks Læsebog 1, 266—293, og í óbundnum stíl, bls. 458—471 og 502—514. Danska stíla hefi eg leidrétt hjá ǫdrum hvǫrjum Efrabekkjar Lærisveini einusinni í viku.

Af Veraldarsǫgunni yfirfóru Lærisveinar í bádum bekkjum Sǫgu Portúgalsmanna, Spánverja og Þjódverja, sem og gǫmlu Sǫguna fram ad Rómversku Keisurunum, allt eptir „Kofods almindelig Verdenshistorie i Udtog, 7de og 8de Oplag".

4) Kénnari **Bjǫrn Gunnlaugsson**. Eg hefi þetta skóla-ár kénnt í skólanum og yfirfarid: 1. í Landaskipunarfrædi eptir Riise í bádum bekkjum samkvæmt Lestrartǫblunni ríkin: Spán, Frakkland, Valland, Ungaraland, Grikkland, Nordurálfu, Tyrkland, Austurálfu yfir hǫfud, svo Danmǫrk og Norveg. Adferdina hafdi eg ena sǫmu sem undanfarinn ár. 2. Hjá Efrabekkíngum yfirfór eg Rúmmálsfrædina (Geometria), sem eptir griska

nafni sínu heitir Jardmæling. Þar í fylgdi eg Ursins lærdómsbók, og brúkadi sømu adferd sem undanfarin ár. 3. Í Nedtabekk kénndi eg talnalist, og fylgdi þar í Ursins reiknings bók. Það gérdi eg med því, ad lærisveinarnir æfdu sig í ad reikna út dæmin sem í bókinni standa, sumir á tøblunni til skipta, en hinir í sætum sínum. Þannig yfirfórum vid þær 4 reiknings-tegundir í heilu og brotnu, vidkénndum og óvidkénndum tølum, samt þriggja-lidareglu í heilum tølum og brotnum, einnin øfuga þriggja-lidareglu og rétta samsetta þrílidu. 4. Yfirfór eg med lærisveinunum í Nedrabekk í Rahbekks lestrarbók 2ru bindi. Holbergs heimspekilegu smádýraveidi, Snedorphs alþýdu, Rahbekks almenníngsvilja, Vivets Datum in blanco, Olufssens gulldós, Todes sjóherforíngja, Stokflets ljódabréf undir nafni Filippu Drottníngar til Eiríks kóngs, Lúnds Ljódabréf undir nafni Christinar Ulfelds, Liebenbergs ljódabréf undir nafni Waldemars annars, og Frímanns ljódabréf til sonar síns. Loksins hefi eg lagfært stíla þá ena sømu, og uppá sama máta sem híngad til.

# Yfirheyrsan

## i Bessastada-ska

skér í þessari röd þann 22—24 og 26. 27 9 Maii 1843.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Mánudagur | f. m. | 8 — 10½ | Eb. Lærisveinar reyndir | | Latínu. |
| | | 10½ — 11 | Nb. — | — | Landaskipunarfrædi. |
| | | 11 — 12 | Eb. — | — | Kristil: trúarlærdómi. |
| | e. m. | 2 — 6 | Eb. Nb. og þeir sem útskr | | Latínskum stíl. |
| Þridjudag | f. m. | 8 — 10½ | Eb. Lærisveinar reyndir | | Grísku. |
| | | 10½ — 11½ | Nb. — | — | Kristil: trúarlærd. |
| | | 11½ — 12 | Eb. — | — | Landaskipunarfrædi. |
| | e. m. | 2 — 6 | Eb. Nb. og þeir sem útskr. | | Dönskum stíl. |
| Midvikudag | f. m. | 8 — 10½ | Nb. Lærisveinar reyndir | | Grísku. |
| | | 10½ — 12 | Eb. — | — | Skilning N. T. |
| | e. m. | 2 — 3 | Nb. — | — | Dönsku. |
| | | 3 — 6 | Nb. og þeir sem útskr. | | Íslendskum stíl. |
| Föstudag | f. m. | 8 — 10½ | Nb. Lærisveinar reyndi | | Latínu. |
| | | 10½ — 12 | Eb. — | — | Veraldarsögu. |
| | e. m. | 2 — 3 | Þeir sem útskr. | — | Latínu. |
| | | 3 — 4 | — — | — | Grísku. |
| | | 4 — 5 | — — | — | Hebresku. |
| Laugardag | f. m. | 8 — 9 | — — | — | Dönsku. |
| | | 9 — 9½ | — — | — | Landaskipunarfrædi. |
| | | 9½ — 10½ | — — | — | Kristil: trúarlærdómi. |
| | | 10½ — 12 | — — | — | Reikn: l. og Rúmmálsfr. |
| | e. m. | 2 — 3 | — — | — | Skilning N. T. |
| | | 3 — 4 | — — | — | Veraldarsögu. |
| | | 4 og s. fr. | dómur lagdur á framfar irra sem útskrifast. | | |
| Mánudag | f. m. | 8 — 9 | Nb. Lærisveinar reyndi | | Veraldarsögu. |
| | | 9 — 10 | Eb. — | — | Rúmmálsfrædinni. |
| | | 10 — 12 | Eb. og Nb. efrihluti | — | Hebresku. |
| | e. m. | 2 — 2 | Eb. Lærisveinar | — | Dönsku. |
| | | 3 — 4 | Nb. — | — | Reiknings l: |

Þar eptir verda atkvædi samanborin og dómur lagdur á hve lærisveinum þeim er eptir verda tekist hefir í þetta sinn.

Bessastada-Skóla þann 2ann Maii 18

